GRADUALE.

EJN ALMENNELEG

# Messusaungs Bok,

Innihalldandi þann

# Saung og Ceremoniur,

Sem i Kirkiuñi eiga ad sijngiast og halldast hier i Landi eptir goodri og Christilegri Sidveniu, sem og vors Allra-Nædugasta Arfa-Kongs og Herra, Kyrkiu Ritual.

EDITIO. XIIX.

Selst Almennt Innbundinn 30. Fiskum.

Þrickt at Hoolum i Hialltadal, Af Jooni Olafs Syni,
ANNO DOMINI M. DCC. LXXIII.

# Til Lesarans.



Ar þess hefi var ordid, ad nockur Ekla taki til ad verda á so kolludum Grollurun eda Messu-Saungs Bookum, þa læt eg þennann Grallara nu i Herranns Nafn á Prent wtgánga, vidlijka innrettadann og undanfarandi nærstu Editiones Þeir Noterudu Tonar eru Nákvæmlega samañborner og leidriettir eptir bádum Hr. Gudbrands Psalma Bookum, af 1589. og 1619. Einnig eptir Grollurunum, sem hanns Tijd (einkum af 1619) Hr. Þorlaks og Sona hanns Hr. Gisla og Þordar, wtge ingnir eru, lijka þeim, hier á Hoolum var þricktur 1711. Þvi þær sijdari Editiones mun reynast i þessum Poste minus emendatæ: Enn hvar Editiones hafa varierad, hafa Me fylgt Edit. 4. Þvi henni ber nær þvi i ollu samann vid þær firri: It. Ed. 7. og 8. Þvi þæ færa med sier temmelega nærgiætna Revision Correctorum: Hier ad auki hefi eg med Athyg li látid revidera þetta Upplag, og er þad sett Bak vid Bookina, sem i hennar Þrickingu hef ur i þessu (sem odru) yfirsiest, so Loginn þar eptir Lagfærast kynni fram i Bookinni, af þein Vit hafa á: Þo finnast ei oll þau uppteiknudu Errata Saungsins, nema i sumum Exempl þessarar Edit. Hvar med minn Tilgángur verid hefur ad þiena þeim, Saung-Lystina fram vegis ydka vilia, og ad Saungurinn gánga mætti, sem Laglegast, innann Kyrkiu sem utann Þa gomlu Hymna (med fleyru odru), sem finnast i Grallarans Þridia Parte, hefi e látid medfylgia, þo ei almennt brwkist, þar, auk þeirrar Andlegu Nytsemdar af þeim ma hafa, kunna Menn þær noterudu Melodias, nema, sem finnast vid adra Psalma þrickta enn þo hellst gamla og Oþrickta, og þar hiá hafa i Hondum pia Veteris & nostræ Eccle siæ Reformatorum monumenta, þar flestaller þessir Psalmar eru i fyrstu giordir añad hvert i Latinu af Ambrosio, Prudentio, Fortunato, Sedulio, Gregorio, et Edur i Þijdsku af Luthero og odrum Guds Monnum, um hanns Tijma og nockru sijda

hvørse

hverier þar eftir af Londum vorum, fyrir Tilhlutan þeirra fyrstu Evangelisku Biskupa hier a Landi, wtlagdir eru a vort Maal, og sijdar ei allfaair revideradar og lagadar af Sr. Olafi Gudmundssyni, Presti a Saudanesi, fyrir Tilhlutan Hr. Gudbrands; So sem hañ greinilega fraaskijrer i sijnum Formaala, fyrir sinni fyrri Psalma Book. Þa Psalma, sem brwkadir hafa verid a þeim, i Konunglegri Tilskipan af 26. Oct. 1770. Allranaadugast afteknu Haatijdis og Helgi-Dogum, hefi eg laatid a sijnum tilheyrilegum Stodum kirra vera, þeim til Gudrækilegrar Idkunar, er sijna Andagt brwka vilia i Heima-Hwsum, a hveriu vona, einginn med rettu steiti sig, enn sijdur nockur ætli slijka rettskickada Idkun til Saaluhiaalplegrar Uppbyggingar, striida i hinu minsta, mooti Konunglegrar Haatignar Allranaadugasta Tilgaangi.

## Enn hvad Messu-Giordina ahrærir og Saunginn

i Kyrkiuñi, þa eiga Prestarnir ad rietta sig eptir Kongl. Majest. Ritual, og strax eptir þad samhrijngt er, laata lesa i Korrdyrum a Helgum Dogum, þessa Bæn, og Fadir Vor a eftir:

DROTTinn, eg er innkomiñ i þetta þitt Heilaga Hws, ad heyra hvad þu, Gud Fadir, miñ Skapari, þu Drottinn JEsu, minn Frelsari, þu verdugi Heilagi Andi, minn Huggari, i Lijfi og Dauda villt vid mig tala. DRottinn, opna nu so fyrir þinn Heilaga Anda, fyrir JEsu Christi Skulld, mitt Hiarta, ad eg kuñi af Prediku ninni ad læra, ad bera Angur fyrir mijnar Syndir, og i Lijfi og Dauda ad trwa a Jesum, og Dags Daglega betra mig i einu Heilogu Lijferne og Frañferdi; Þad heyri og Bænheyri Gud fyrir JEsum Christum, Amen. Fadir Vor, etc.

Þa strax eptir byriast Saungurinn, sem hverium Degi tilhlijdir, og þa Kyrie er wtswngid, byriar Presturinn sialfur. Alleinasta Gudi i Himnarijki, sie Lof og Dijrd fyrir sijnar Naader,
Edur annad Gloria; Enn ad þvi endudu, snijr hann sier til Foolksins, segiandi:

 Drottiñ



Diaknninn og Foolkid ansar.



DRottiñ sie med ydur. Og med þijnum Anda.

Þa snijr Presturinn sier til Altarisins, og sijngur Collectuna, þa sem til er giord.



Lꝏtum oss bidia. Heyr Herra Gud og Himneske Fadir.

Eptir Collectuna, snijr Presturinn sier til Foolksins, og syngur Pistilinn sem til er giordur, skijrt og langsamlega, so Foolkid megi skilia hvad þar talast, uppbyriandi med þessum Hætti.



Þennañ Pistil skrifar Sancte Paall til Romanos. vel sic. Til Corinthios.



Kiærir Brædur. Comma, (Strik) Periodus. (Punctur og Klausa)



Qvæstio? (Spurning) Finale. (Þader Nidurlag.)

N. B.

N. B. Þegar Lectian̄ erſkrifud an̄arſtadar, en̄ i Piſtlum Poſtulanna, þa hagar Preſturin̄ ſier þar eptir, ſo ſegiandi: Þeſſi heilaga Lectia ſkrifaſt i N. N. Spaamans-Bok, Poſtulan̄a Giorningum, Opin̄beringar Bookin̄i, etc. N. N. Capitula. Nær eptir ſomu Nootum ſem ſtrax var um̄gietid.

Halelnja, Item Seqventian, ſijngiſt af Grallaranum, ſo ſem til er giort, og Tijmanum hæfir. Sijdan̄ ſnijr Preſturin̄ ſier fram̄, og ſijngur Gudſpiallid, uppbyriandi a þen̄an̄ Hatt:







Diaknin̄ og Foolkid anſar.






# Eptir Gudspiallid byrjar Presturin̄ Credo. Vier trwum aller a eirn Gud.

Predikunin̄ skal jafnan̄ uppbyriast med Aminingu til Fooltsins, og ad þad bidie Gud um̄ Heilags Anda Raad, til ad heyra og vardveita han̄s Ord, hønum til Lofs, en̄ þeim til Lærdooms og Undirvijsunar Saalarinnar vegna, sem þad heyrá.

Adur en̄ Presturin̄ les Gudspiallid, sijngist Eitt edur Tvø Vers, sem uppa þad hlijdir, og feirna segir. Ad endadri Predikun, aminnir Presturin̄ og so Foolkid i an̄ad Sin̄, ad giøra almen̄ilega Bæn til Guds Fødurs, i han̄s Sonar JEsu Christi Nafni, um̄ alla Naudsynlega Hluti, andlega og lijkamlega.

Eptir Predikun skal almen̄ilega sijngia a Sun̄udøgum, Heidrum Gud Fødur Himnum a. En̄ a ødrum tilteknum Tijmum Arsins, sijngist eptir Grallaranum, utan̄ þa stoor Naudsyn er a Ferdum, Land-Plaaga eda Hardinde, þa sie sungin̄ Litanian med sijnum Bænum.

Strax þar eptir, eigi Børn ad skijra, þa handtieri Presturin̄ þad Embætti eptir Ritualnum og Handbookin̄i. En̄ nær Confirmatio skiedur, sijngist Kom Skapari Heilagi Andi.

Veri nu so vid, ad Opin̄ber Aflausn skuli framfara a sama Degi, þa byriest undan̄ hen̄i Psalmurin̄: Konung David sem kiendi. Og sijngist af hønum so mikid sem þarf, nema sie ecki Børn ad skijra, þa byriest sa Psalmur strax af Predikunarstoolnum i Stad þess tilgiørda Vers. Eptir Opin̄bera Aflausn, sijngist þetta eina Vers: Þo mørg og stoor sie Man̄leg Synd. Sijdan̄ giøre Presturin̄ Amin̄ing til þeirra, sem til Guds Bords ganga, so sem eptirfylgir.

SAkir þess minnir kiærustu Christi Vinir, ad þier riettileg a og maklega mættud medtaka þad hæleita Sacramentum Kvølldmaaltijdar vors DRottins, þa ber ydur fierdeilis þessa tvo Hluti ad vita og skilia, sem er, hvad þier skulud trwa og giora, þvi ad þeßum Ordum, sem Christur sagdi (þad er min̄ Lijkami, sem fyrir ydur verdur giefinn, Item, þad er mitt Blood, sem fyrir ydur wthellist, til Fyrirgiefningar Syndan̄a) skulud þier

fullkomlega trwa, ad so i Sanleika er, þvad JEsus Christus er þar sannarlega sialfur hiaa, med sijnum Lijkama og Bloodi i Sacramentinu eptir Ordanna Hloodan. Þar næst skulud þier og so trwa Christi Ordum, til Syndanna Fyrirgiefningar, þad, ad JEsus Christur skeinkti ydur og gaf siñ Lijkama og Blood, til eins Innsiglis og Stadfestingar uppaa allra ydar Synda Fyrirgiefning. Ad sijdurstu skulud þier fyllilega giora Christi Befalning og Skipan, þar hañ so bijdur ydur segiandi: Medtakid og etid. Item, drecked hier af allir. Item, giørid þad i mijna Minning, þvi hann hefur giefid oss sinn Lijkama og Blood ad eta og drecka til Fyrirgiefningar Syndaña, og þar med ad minnast hañs heilaga Dauda og Pijnu. Þar fyrir, þegar þier so trwid þessum Christi Ordum, og giørid eptir hañs Skipan og Befalningu, þa erud þier riett proofadir og reyndir, sem Paulus segir, og meigid so maklega eta Christi Lijkama og drecka hanns Blood, til Fyrirgiefningar Syndanna. Þar til giefi ydur Gud Himneskur Fadir sijns H. Anda Naad, fyrir þañ sama JEsum Christum vorn HErra. Og þar um vilium vier allir Gud bidia af Hiarta, og segia.

Eptir Aminñinguna, snijr Presturiñ sier til Altarisins, og uppbyrlar Fadir vor, skijrt og lanngsamlega, med Hiarta og Muñi, segiande



Laatum oss bidia. Fadir vor þu sem ert a Himnum. Helgist þitt Nafn. Til-



komi þitt Rijki. Verdi þiñ Vilie, so a Jordu sem a Himne. Gief oss i Dag



vort

vort daglegt Brand. Og fyrigief oss vorar Skulldir, so sem vier og fyrirgiefum

vorum Skulldunautum. Og eigi leid þu oss i Freistni. Helldur frelsa oss fra

Diakninn og Foolkid ansar.

Illu. Amen.

Sijdañ skal Presturiñ taka Patinuna med Braudinu sier i Hendur, og halda þar a, a medañ hañ siñgur Innsetningar Ordiñ, sem eptirfylgir, af Matth. 26. Marc. 14. Luc. 22. 1. Cor. 11.

Vor HErra JEsus Christus, a þeirri Naatt, sem hañ forraadiñ var,

took hañ Braudid, giørdi Packir og braut þad, og gaf sijnum Lærisveinum

og sagdi. Takid og etid, þad er miñ Lijkami, sem fyrir ydur, verdur giefiñ

Giøred þad i mijna Miñing.

Hier næst take Presturen Kaleikeñ sier i Hendur, fyrer utan Papiska Elevationem edur Upphafning, og siinge Testamentis Ordeñ, sem epterfylger. Eñ á medañ Presturen wtdeiler Sacramented, talar hañ ecke añad til Foolksins, eñ þesse Ord: Petta er Sañur JEsu Lijkame, þetta er Sañarlegt JEsu Blood.

Somuleidis epter Kvølldmaaltijdena, took hañ Kaleikeñ, giørde Packer, gaf þeim hañ og sagde, drecked aller hier af. Pad er Kaleikur hins Nija Testamentis i mijnu Bloode, sem fyrer ydur wthellest, til Fyrergiefningar Syndaña. Giøred þetta so opt sem þier (þad) drecked, i mijna Miñing.

A medañ Sacramented wtdeilest, þá siingur Diakneñ og Samkundañ, nockra af þessum Psalmum sem til eru giørder, Eirn eda Tvo, sem eru einkum þesser.

Pier

Þier sie Lof og Dyrd JEsu Christ, etc. JEsus Christus er vor Frelsare, etc.
O Guds Lamb Saklausa, etc. JEsu þijn Miñing miog sæt er, etc.
Gud vere lofadur, og so blessadur, etc. Christe vier aller þóckum þier, etc.
Heyr þu Guds Lamb, etc. Tunga mijn af Hiarta hlioode, etc.

Skal ecke syngia leinge fram̃ yfer þad, ad Foolked er buid ad medtaka Sacramentum. Prestarner ættu og ad amiña Foolked, og siaa til, ad þad gange til þess Heilaga Sacramentis med Gudhrædslu og goodre Sidseme, fallande aa Knie, Kallmeñ til hægre Handar, eñ Kvifur til Vinstre. Þar er og aftakande sa liootr gamall Vane, sem sumer Prestar lidid hafa, ad Foolked med Ys og Þis (nalega) leitar hver ad sijnum Naunga, og goodum Vin, ad minnst vid hañ, so þal fyrer hindrast Gudleg Þiodnustugiörd. Sie nockur vansaattur vid añañ, þa forlijkest fyrer Embætted, eñ hinum ödrum Kossagange dyriar med ollu afteknum ad [illegible].

Strax þa wte er Sacramented, þa snijr Presturen sier fram̃ og seiger:

**DRotteñ sie med ydur.** Diakneñ og Almugeñ svarar. **Og med þijnum Anda.**

Þar epter snijr hañ ad Altarenu, og syngur þessa Bæn og Þackargiörd:

VJer þöckum þier DRotteñ Almaattugur Eilijfur Gud, ad þu med þessare Heilnsamlegre Giof hefur oss alla nært, vier bidium þijna Myskunseme, ad þu laater nu þessa þijna Gaafu koma oss til alls Gagns og Gooda, og til vorrar sañrar Trwarstyrkingari þier, og til eins breñanda Kiærleika og Elsku aa medal vor Jñbyrdis. Fyrer Saker Nafns þijns Elskulegasta Sonar JEsu Christi, vors DRottens og HErra.

Foolked svarar: AMEN.

Nær eingeñ er til Altaris, synge Presturen þessa Bæn: Laatum oss alla bidia.

O HErra Gud Himneske Fader, Vier þockum þier fyrer þeña þiñ Fodurlegañ Velgiorning, ad þu af þiñe stooru Naad og Myskunseme, hefur giefed oss þitt Heilaga og Saaluhiaalplega Ord, med hvoriu þu og so hier hiaa oss safnar þiñe Christelegre Kyrkiu. Vier bidium þig audmiukelega, gief oss þiñ Heilaga Anda, ad vier med þacklaatu

Hiarta

Hiarta, hiartum tara vid þvi, og stick a oss þar epter, og alltijd og ydugl ega fara vaxande i Christelegre Trw og Kiærleikanum, og so Lokſens Saaluhoolpner verda, fyrer þiñ Elſkulegañ Son JEſum Chriſtum vorn DRotteñ, ſem med þier lifer og Ríkier i Einingu Heilags Anda, eirn ſañur Gud, frai Eilijfd til Eilijfdar. Foolked ſvarar: Amen.

Eñ uñ alla Lꝛanga-Foſtu, ſkal pronuncera þeſſa Eptirfylgiande Bæn, a Suñu-og Hænadøgum, eñ ecke fleire.

VJer þockum þier Gud Fader, ad þu hefur giefed oſs þiñ Eingieteñ Son JEſum Chriſtum, uppa þad, ad aller þeir ſem a hañ trwa, ecke fyrerfareſt, helldur hafe eilijft Lijf. Vier þockum þier JEſu Chriſte, ad þu hefur bored vorar Synder a þijnum Lykama, og med þijnu Bloode afmaad vorar Yfertrodſlur. Vier þockum þier þu Verduge Heilage Ande, ad þu hefur giefed oſs þa Trw i vor Hiortu, ad vier eckert vitum añad til Saaluhialpar, eñ þañ Kroſsfeſta JEſum Chriſtum. Gief oſs, O Gud, þijna Naad, ad vier fullkomlega trwum, ad allar vorar Synder ſieu fyrer JEſu Pijnu og Dauda Krapt oſs fyrergiefnar. Upplijs oſs med þijnum Heilaga Anda, ad vier fyrer JEſu Dauda, Daglega afleggium Syndena, og alldrei ſleppum JEſu wr vorum Hiortum, þangad til vier ſiaum hañ berlega i Eilijfu Lijfe. Þeſſa bidium vier þig aller i Nafne Jeſu Chriſti vors Herra, Amen.

Pa ſnijr Preſtureñ ſier fram aptur, Og ſeiger:

DRotteñ ſie med ydur. Diakneñ ſvarar. Og med þijnum Anda.

Hier epter Bleſſar hañ yfer Foolked, med þeſſum Ordum, ſem Gud ſiaalfur baud ad Bleſſa ſitt Foolk med i Numer. 6. Capitula, med ſoddañ Nidurlage.



Og giefe þier Frid. (vel ſic,) Og giefe þier Frid.

DROTTEn blesse þig og vardveite þig, DROTTEn láte sijna Asioonu lijsa yfer þig, og sie þier Naadugur, DROTTEñ upplypte sijnu Auglite yfer þig, og giefe þier Frid. Søfnuduren svarar: AMEN.

Eñ þegar Confirmation framfer, lijser ecke Presturen Blessan yfer Søfnudenum, fyrr eñ hun er a Enda. Og ad Sidustu sijngest Exitus sem til er giørdur, og Lofsens endest Messañ, þa Catechisationeñ er wte, med þessare litlu Bæn, og Fader Vor.

DRotteñ, eg þacka þier af øllu mijnu Hiarta, ad þu hefur nu kieñt mier, hvad þu villt, ad eg skule giora. Hiaalpa mier nu, miñ Gud, med þijnum Heilaga Anda, fyrer Saker JEsu Christi, ad eg meige vardveita þitt Ord i hreinu Hiarta, og þar af styrkiast i Trwñe, og i einu Heilogu Framferde forbetrast, og mig þar vid i Lijfe og Dauda hugga AMEN. Fader Vor, etc.

Eg Oska af Hiarta, ad þetta Verk meige þiena Þrij=Einum Gude til Dijrdar, og hañs Dijrkeyptum Søfnudum til Andlegrar og Lijkamlegrar Blessunar og Farsælldar Viliande fiñast allra sañra Guds Elskenda einlægur Reidubwen Þienare

Hoolum i Hialltadal,
D. 25. Martii. 1773.

Gisle Magnusßon.
Superint. Hoola St.

Þañ

## Þañ Fyrsta Suñudag i Adventu, Messu Upphaf.







Hañ fæddist oss eiñ Madur, a efstu Heim sins Tijd, hanns Heilogustu Moodur, hiellt Gud sinn Meydoom vid, hann fieck Dioful hertekid, Himnarijki upplokid, og fært oss eilijfann Frid.

Alls Heims Skaparinn ædsti, og Fodurs Tigninn skiær, eilijfur Herra hædsti, hvors Walld ei Enda fær, forda oss vel vid Syndum, veit oss ad þig æ astundum, so fraa þier ei follum vær.

Laat oss i Astsemd þinni, og Kynning vaxa hier, ad Trwiñ aukast kynni, i Anda þioonum þier, so ad þinn Sætleik hreina, Saal vor mætte vel reyna, og til þijn veidum þyrster.

Hirt oss sem Hiartans Fadir, hiaalpa og veit oss Lid, og gamla Adam deydir, so gieti nijr lifnad vid, sem hier med Huga hreinum, hafa vill i þier einum, Ord sijn, Verk og allann Sid.



Kyrie

## KYRIE.

Kyrie Gud Fadir hærsta Traust, Þu ert vor Gledi og Lyst, byrin oss aumum

vernda oss fra Syndum, myskuna þu oss. Christe, þu ert vor Vegur,

og þad sanna Lioos, Lijfsins Ports Dyr, Kiærleikans Speigill, allra Christena Lijf

og Raad, þu varst oss til Saaluhiaalpar giefinn, myskuna þu oss.

Kyrie Heilagur Andi, Gud Eilijfur, verta hiaa oss Myskunsamlegur, svo ad vier



mættum Syndirnar graata, laat oss ecki tapast, helldur a þig vona, myskuna þu oss.

GLORIA in Excelsis.



Alleinasta Gudi i Himnarijki, sie Lof og Dijrd fyrir sijnar Naadir,
Sem hañ hefur giordt a Jardrijke, a þessum Nadugiegum Dogum.



A Jord er kominn stoor Gledi og Frid, svo Manneskiañ maa vel glediast vid, Guds



Elsku og goodann Vilia,

Vier losum og dijrkum, vier heidrum þig, vier þockum þier fyrir þijna Elsku. O Drottinn Gud Fadir i Himnarijki, þu hefur oss synt stoorann Kiærleika, alla Hluti hefur þu



i þinni

i þinni Magt, hvad þu villt hafa i framtí fær einginn sagt, Gott skedur þa er þig Ottast.

O JEsus Christus Guds einka Son, sem hiá Gudi Fodur situr, þu hefur frelsad allt Mannkyn, og oss vid Gud forlijkad; Fyrir þitt Blood og bitrann Deyd, hefur þu oss leyst af Syndum og Neyd, gef oss Naad i Trwnni ad bliifa.

Þu ert alleina vor Hiaalpar Mann, sem oss vill Himnarijki giefa, þu ert Guds Fodurs saklausa Lamb, sem fyrir oss villdir Daudann lijda; Þu ert alleina vort Hiaalpar-Raad, fyrir þijna Skulld þa faaum vier Naad, Allsmegtugasti JEsu Christe.

O þu helgi Andi vor Huggari, sem oss villt Sannleikan kenna, hiaalpa oss ad hallda þinn Lærdoom, Gudi Fodur, Syni og Þier til Æru; Vernda oss fra Diofulsins falskri Lyst, hiaalpa oss ad trwa a JEsum Christ, nu og Æfinnlega, Amen.

## HALELUIA sem syngiast skal um Jola-Fostu Tijmann. Philippenses 4.







nu



nu nælægur hier, med bleſſad Ord ſitt, fyrir hvad verdur kvitt, Aundinn vor af oll-



# SEQVENTIAN.

um Boda, Hale - - luja.



Nu bidium vier Heilagann Anda, ad viermættum i Chriſtilegri Trw



riett ſtanda, eñ Gud ad elſka, og hañ ad kalla a, hellſt i Dautans



Stundu, þa vier Heimt ferim ⟨?⟩ hiea, Kyrieeleiſon.

Þu verduga Lioos, gief oss Þitt Skyn; Lær oss ad kieña JEsum Christum alleina, og hiaa honum ad vera, vorum Hiaalpar Mañ, sem oss vill iñleida, i vorn rietta Fodurs Rañ, Kyrie-eleison.

Þu sæte Ande, send oss Þijna Naad, læt oss faa ad hallda Þijn elskuleg Raad, so vier mættum af Hiarta, hvor añañ Elska, i einum Huga vera, og i Fride Christs ad blijfa, Kyrie-eleison.

Þu hærsti Styrkur i allri Neyd, hiaalp so vier hrædunst hverki Skam nie Deyd, og i voru Sinni, sieum oruggvir Þa, nær Diofull vill aa oss strijda, og Saalinn skilst Lijkama fraa, Kyrie-eleison.

CREDO.



Vier trwum allir a eiñ Gud, Skapara Himins og Jardar, sa Fodur



ur hefur sig giefed, so vier hans Børn skylldum verda, hañ vill oss vort



Uppehelldi veita, vel ad Sæl og Lijfi giæta, el lætur Olucku rata, eing=



vnm Boda meigum þvi mæta, Forſioon og Vernd og Heill vor, er hañ



æ vallt, þviad i hañs Valldi ſtendur allt.

Vier trwum og a JEſum Chriſt, Eingietiñ Son hañs vorn Herra, hvors Mæctur, Dijrd og Eylijfd viiſt, ei kañ nockurn Tijma þverra, Gietiñ af heilogum Anda, og af Mey fæddur æn Synda; J ſijnum Manndoomi ſoñum, til Lyknar oſs topudum Moñum, æ Kroſſinum leid Dauda, og yfirvañ; Af Guds Krapti upp aptur reys hann.

Vier trwum a Anda heilagañ; Eirn Gud med Fodur og Syni, Voladra Styrkur heitir hañ, hærſtu Gæfur a þeim ſtijner, allri Chriſtni hier i Heimi, helldur, ſo Sam, lyndi geymi, Aflauſn trwum allra Synda, af Jordu ſkal Holld vort uppſtanda, eptir Utlegd þeſſa, oll Guds Born fæ, æfiñlegt Lijfid honum i hiæ, Amen.

Eptir Predikun ſkal ſijngia þetta Vers.



Heidrum Gud Fødur Himnum aa, sem hvørskins hefur ad Raada,
So uñ hañs Son ad segiast maa, Saa hefur oss frelst af Voda.



Og heidrum Heilagañ Anda med, hañ veitir oss Giafir sijnar, er su Heid=



ran fra Eilijfd skied, alldrei hiedañ af dvijnar, uñ øss Gud Naadir þijnar.

Her strax eptirfylgir Aminñing til þeirra sem gaanga til Altaris. Enn aa medañ Sacramentum wtskiptist, skal sijngia þetta Agnus, i Moodur=Maali.



O Guds Lamb Saklausa, aa Krossinum Lijflaatid, Fødurnum varstu hlydinn,

hvernin



hvorniñ sem þu varst forlitiñ, allar Syndir hefur þu i burttekid, Ellegar værum



vier Fortapader. Myskuna þu oss O! JESU.
Myskuna þu oss O! JESU.
Gief oss þiñ Frid O! JESU.

Þa margt Foolk geingur til Guds Bords, þa skal syngia so mikid af þessum Psalmi sem vill.



JESUs Christus er vor Frelsari, sem fraa oss Guds Reidi sne = ri, med



siñi Pijnu og saarri Neyd, svipti hañ oss fraa Eilijfum Deyd.

Ad þvi skylldum alldrei gleyma, oss baud ad eta siñ Lykama, þad helga Braud hanns Holldid er, hanns Blood i Wijni dreckum vier.

Hvor sem vill þa Maaltijd þigg'a, þeim ber vel ad sier ad hyggia, sa Omaklegur medtekur þad, mun Daudañ f.a i Lijffins Stad.

Heidra Gud Himneskañ Fodur, hvor af Naad þig so vel fedur, og so þu leistist Syndum af, Son siñ fyrir þig i D.udañ gaf.

Trw þu riett so ecki efist, Ostyrkvum sw Fæda giefist, hverra Samvitsku Syndinn lijr, Sorg og Mæda i Hiarta bijr.

Soddañ Naad og miwka Miñdi, mædd-ur Hugur siña villdi; Ef saklaus ert, þa siert þar fraa, so stærri Hefnd ei hliootir ad faa.

JEsus til sijn Aumum bijdur, eg vil Mysk-un veita ydur, Heilir gyrnast ei Grædarañ, Gagnlaus lijst þeim su Ment hann kann.

Ef þier Lausn wtvega kyñir, ei væri Þorf a Pijnu miñi; Hvad skal þier mijn Maaltijd þa, megnir þu sialfur Hiaalp þier ad faa?

Ef þu trwir af Huga hreinum, og jaatar med Muñi þijnum, Velskickadur þa verdur þu; Vijst nærir Saal þijna Fæda sw.

Avoxt þeñann attu ad sijna, elska skalltu Naaunga þijna, og þeim giarnañ Adstod siert, eins sem ad Christur hefur þier giort.

Iubilum S. Bernhardi, IESU dulcis memoria.



JESU þijn Miñing miog sæt er, og miwka Hiartans Gledi lier, umfram Hunang



og allt hvad er, ylmar af JESU Nafni hier.

Siijngiast

Siijngiast eckert Sætara maa, nie seigiast Gledelegra fraa, Hnxun er eingeñ hærre ad faa, eñ HErrañ JESUM miñast aa.

JESUS er Von þeim Ydrast kañ, øllum Milldur sem bidia hañ, þeim er hañs leita Liwsur añ, med Rijku vill græda sierhvørn Mañ.

JESUS Sætleike Hiartans hiir, Hugarens Lioos og Bruñur Nyr, øll Heimsins Glede er þa rijr, ef Lanngun Hiartans til þijn snijr.

Tunga þad eingeñ tala maa, nie Tygn wtskijra nockur þa, Oreinder trwad einger faa, hvad Elsku er JESU gott ad naa.

JESUM i Hvijlu hura eg, Hiartans i læstum iñra Veg, Astundan sw er Jñeleg, Opeñberleg og Heimugleg.

Eins og Mariu Angraadt Gied, eg sæke JESU Grafar Bed, Hiartans Sorgfullu Hroope med, og Hug, þad Auguñ faa ei sied.

Hañs Legstad Taarum helle eg i, Hiartad mitt Svalar sier med þvi, ad JESU Footum Fell eg aa Nij, i Fadme þeim eg Læstur bij.

JESU Undrunar Kongur kiær, Kongur Sigrande miog fraa bær, Omætanlegur Jlmur skiær, Ækelegaste Fiær og Nær.

HErrañ vor milldur hiaa oss bw, Heiløgum Gaafum uppfyll þu, Hugskots Myrkrum fraa Møñum snw, med þijnum Sætleik Fæd oss nu.

Hvønær þa kiemur Hiartad i, Helgur Sañleike, lijser þvi, Heimsins Faanijtu hverfa Sky, hrein Elska kviknar uppaa nij.

JESUS Sætasta Elskañ er, Jlmur Sætaste fyrer mier, Þusundfalldlega Pocknan ber, Þusundfallt meir eñ skilium vier.

Hañs Kvøl bevijsa hellst kañ þad, og Heilagt JESU Dreyra Bad, oss sem Lausn hefur wtvegad, og vid Gud Fødur Forlijkad.

JESUM þecke hver hellst sem kañ, hañs Astar leite sierhvør Mañ, JESUS af ydar Elsku brañ, Elskañ brekande siñur hañ.

Elsked þañ er so Elskar oss, Elskuñe mæte Trwar Koss, aastunded slijkt ylmande Hnoss, med Astar Bæn og Taara Foss.

Miñ JESU HErra Myskunar, mijn Huggun allrar Gledeñar, Bruñur Sætleiksins Sadningar, og sañа Hiartans Fagnadar.

Miñ goode JESU gief mier þa, Gnægd af þiñe Elsku ad faa, veit mier aan Enda ad vera þier hiaa, Vegsemd þijna og Dijrd ad siaa.

Mijn Twnga vijst Overdug er, veit þo ad ecke þeygia ber, Elskañ þijn Diørfung eykur mier, Alleina gled eg mig i þier.

Elskañ þijn JESU alltijd hier, Endurlijfguneñ Hiartans er, aan Leida sañа Sadning lier, Saalena hwngrar epter þier.

Hvør þig smackar, þig hellst gyrnest, hvør Saal þig drack, þar til er þyrst, Hiartans nein ecke nægær

er Lyst, nema vier elskum JESUM Christ.

Hvørn þu dryckiar med Astar Yl, oo Sætleik þijnum fiñur Skil, hvad sæll er soo þar hyxar til, Hiartanu geingur þa i Vil.

JESUS er Engla Heidur hijr, Heyrneñe Glede-Saungur skijr, i Muñe Hunangs Ylmur dyr, i Hiarta Lijssins Dryckur nijr.

Glovande hef eg Gyrnd til þijn, miñ gorde JESU kom til mijn, nær gledur mig sw Naalægd þijn, nær fær mitt Hiarta Laungun sijn?

Soñ Elska JESU sifelldlig, Siwkañ af Elsku giører mig, sæte JESU mier sijn þu þig, Saaleñ mijn þar vid gledur sig.

JEsu þu ert Myskuneñ mest, misg Daasom Glede i Hiarta fest, af Goodsemd alldrei Gud miñ lietst, giefdu mier þig ad Elska best.

O! hvad good JEsu Elska er? Añad ei stunda skylldum vier, Æ! ad eg deya mætte mier, miñ JEsu, so eg lifda þier.

O JEsu Saalar Unun krw, allra sætaste miñ JESU, þijn leita Taareñ naakvæm nu, nærst er Hiartanu Gyrndeñ sw.

Hvørt sem ad geing eg wt eda iñ, eg þreye JESUM HErra miñ, hvad gledst eg daatt þa hañ eg fiñ, hvad feigeñ vid þañ Sætleikiñ?

Mijns JEsu Fadm ad miñast vid, meira gledur eñ Hunaangid, þa vier feingiunst hañs Hægre Hlid, Hiartanu fiñst ei laangsom Bid.

Hvørs eg leita mitt Hiarta sier, hvad eg gyrnest þad fiñ eg hier, Siwkur af JESU Ast eg er, all Hiartad breñur nu i mier.

Ef þu so JESU epter þreyr, alldrei slockna Kiærleikar þeir, Ast sw hijrnar eñ ecke deyr, ætij vex hun og kviknar meir.

Sw Elska breñur sijfelldleg, Sætnar og verdur undarleg, med Undrun smackar Astwdleg, Astwdleg Gledeñ fai sælleg.

Sw Elska kiemur Ofañ ad, i Merg og Hiarta fiñur Stad, Hugarens Astar iñra Bad, Aundiñ mijn gledur sig vid þad.

O! þad farsæla Astar-Baal, upptendrar mijna Gyrnd og Saal, O! hvad sæt er sw Svala-Skaal, Son Guds elskar Hiartad og Maal.

Sæll JESU Meyar sæla Saad, Sætleikur vor og Elsku Daad, þier Valld-Dyrd, Heidur, Heilsa, Raad, og Hroosun Gudleg æ sie tiaad.

Kom, kom þu goode Kongur nær, kom þu Vegsemdar Fader kiær, sijn vorum Hug hvad siertu skiær, sem nu af Hiarta gyrnunst vær.

Siaa, JESUS fegre eñ Sooleñ er, sætare eñ Balsam finst hañ mier, um fram Ilm allañ, Ilmaber, Elskulegre eñ giørvallt hier.

Hañs Smeckur hrærer nu oo Ny, neirn Ikmur kañ ei jafnast þvi, Maatt-vana Paankeñ er hier i, Elskuñe lijka Hvijld eg bij.

Hier vid uner sier Hugureñ, hier miñar Elsku

Snægd

Gyrnd eg þiñ, þu ert mijns Hiarta Hroosuniñ, HErra JESU Frelsare miñ.

Æ! Kom þu Hiartans Elskañ miju, eins og Fødursins Magt, er þijn, i Himna Dijrd sem aa þjer skijn, Ovinur þiñ maa skamast sijn.

Eg skal þier fylgia æ hvørt ser, eingeñ kañ slijta mig fraa þier, Hiartad mitt JESUS hefur med sier, Hroosun Mañkynsins JESUS er.

Fagne nu giørvall Himna-Her, Himnaña Portañ opna ber, þeim Sigre hroosar sijngium vier, sæll HErra JEsu! Dijrd sie þier.

Kongur Vegsemdar, Kongur hijr, Kongur hroosande Sigre dijr, Frelsudum JESUS Frelse bijr Frelsarans Dijrd ei verde rijr.

Þu Bruñur allrar Blessunar, blessqda Liooſid uppe þar, greid burt Skyeñ Ogledeñar, gief þu oss Byrtu Vegsemdar.

Þig prijsar allur Himna-Her, Heidur og Dijrd hañ sijngur þier, JESUS eirn Heimeñ upplijser, og oss vid DRotteñ Fridþæger.

Stioorn JESU, Frid um Eilijfd aa, yfir vorn Skilning geingur saa, Hiartad mitt gyrnest hañ ad sia, honum eg feigeñ villde naa.

Til Fødursins uppstijgeñ er, øllum stioornande Dijrdar-Her, mitt Hiarta burtu hvarf fraa mier, HErra JESUS took þad med sier.

Veitt sie þier JESU Vegsemd klaar, Virding, Lofgiørd og Bæna-Taar, laat þu oss HErra Lijfsins Haar, lifa hiaa þier um Eilijf Aar! Amen.

Þegar faaer eru Comunicantes, maa sijngia þetta Agnus Dei, einusiñe edur optar.



O Þu Guds Lamb, sem i burt tekur Veralldarinnar Syndir, Myskuna þu oss!

## Eiñ Packlætis Psalmur eptir Sacramentid.

C Christe



Christe vier allir þøckum þier, þa sætu Ast þu oss syndir,
Ut þu gafst oss þig allañ hier, og allt i Daudañ þig þijndir.



Svo ad vier yrdum Synda frij, siaalfs þijns Bloodi wtþelltir þvi, so



yrdum vier ei tt = jnd = ir.

Þvi er þad nu uppfyllt so, ad hanns Mysk-un vier hliootum. Syndaña Lausn og saña Roo, slijkvar hanns Elsku niootum, semium Traust og sierlegt Raad, so ad vier eigi þessa Raad, med Otrw af oss briootum.

Þiñ fagra Lijkama til Fædu gafst, og feckst oss þitt Blood ad drecka, ad auka so vorn Anda Krapt, og illum Girndum ad hneckia, Endurfædingar ebl þu oss Aud, er Fæda þessi Barñã Braud, riettast skal ei ad Rock-um.

Hiaalp so vier kunnum Kiærleiks Verk, Christnum Monnum ad veita, vel sem þijn Kienning vijsar sterk, vier mættum þijn Bo-

rn

ern heita. Þier iñrætter þenkium aa, þi'ns Aptans Maals ad neyta so, og eige af þvi breita.

Medañ vier lifum hier i Heim, hañs Velgiorda vier miñunst, hañs Kvol og Dauda ad kyña þeim, i Kiærleik þar um yñunst, þar til Rijked þiggium vær, þad sem aungvañ Enda fær, i viisum Fognud fiñunst.

Sialfum Gude vier seigium Dýrd, hañs Syne og Heilegum Anda, sem at Upphafe wt var skijrd, og æfeñlega skal standa, og um Allder Allda meir, Amen seige aller þeir, sem Hiortun hier vill vanda.

Epter Sacramentis Utdeiling, maa og siingia þeñan Lofsaung.



Gud veri Lofadur, og so Blessadur, sem oss fædt hefur alla sialfur, med sijnum Lijkama og med sijnu Bloodi, þad giefi oss Herra Gud til Gooda.



Kyrie = eleison. Herra fyrir helgañ Lijkama þiñ, hvor af Jomfru Mariu



er komiñ, og fyrir þitt flecklausa Blood, frelsa þu oss af allri Naud, Kyrie-eleison.

Þitt Heilaga Hollð, er fyrer oss wtgiefed, i Daudañ, so vier feingium Lijfed. Astgiof stærre eingeñ mætte finnast, af þvi skulum vier heñar minnast, Kyrie-eleison.

HErra þijn Elska þvijngade þig, þau Undur ad syna Dasamlig, vora Sekt hefur Blood þitt bætt, vid blessadañ Fodur oss alla sætt, Kyrie-eleison.

Blessan siñar Nadar Gud oss giefe, ad gaungum hañs Veg alla Æfe, i hreine Ast og oruggre Trw, so oss sie heilnæm Fæda sw, Kyrie-eleison.

HErra, þiñ Ande sie oss ætijd hiaa, og giefe oss jafnañ þa Naad ad faa, ad þijn Christne, þitt litla Lid, Life i Samlynde og Frid, Kyrie-eleison.

## Þegar øngver gaanga til Guds Bords, aa þessum Adventu Tijma,

þa syngest epter (Heidrum Gud Fodur Himnum aa) Þesse Epterfilgiande Psalmur.



Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord, Hindra Pavans og Tyrkians Mord, sem



Vilia JEsum Son þinn siaa, Sijnum Velldis-Stoole hrundum fraa.

Syn þijna Magt O JEsu Christ, ollum Herrum þu stioornar vijst, oss þijna Christne auma ver, Æfeñlegt Lof so syngium hier.

Gud helge Ande Huggun trw, Hiord þiñe gief Samlynde nu, vertu hiaa oss i Efstu Neyd, wr Dauda iñ i Fognud leid.

Þiñe Kyrkiu og Christnum Lijd, kiære Fader hlijf allañ Tijd, hallt þu oss fast i hreinre

trure

irnre Trw, Hernad Ovina fraa oss snw.

Aull Svikraad þeirra Onijt giør, Illsku siñe so mæte hier, gief þeir steipest i Grøf þa iñ, sem grafa, ad skada Sofnud þiñ.

Fullkomlega þeir þeckia þa, þu Gud lifer og ert oss hiaa, Hoop þeim sem hefur a þier Trw, Hiaalp volldugleg a veiter þu.

Fyrer Lausn og Frid, þiñ Lijdur hier, leynt og berlega sijngium vier, þier Guds Heilagre Þreñingu, Þacker, Lof, Dijrd ad Eilijfu.

## Edur þesse epterfylgiande Psalmur,

## Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa, etc.

O Gud biifolud æ sie þier, utvaleñ Christne hreina, svo hun jafnañ i Heime hier, halldest fyrer Naad þijna; laat þijna Magt og Somma siaast, sæta Huggun og saña Ast, vilier oss aumum sijna

Þott moodgum þig æ margañ Veg, med Synd a hvorium Deige, af þijnum Vilia opt og miøg, Unger og Gamler hneige, hvorn Dag styrker oss Huggun su, hefur þvi lofad siaalfur þu, Syndugs Dauda vil eg eige.

Þa fullkomlega fordast vill, Framferde sitt bid lioota, og vidurkieñist Verk sijn ill, Velferd og Lijf skal hlioota, Hug vorn glédur sw Huggun væn, Heyra vyrdest þu vora Bæn, Lætur oss Naadar nioota.

Fyrer þitt Nafn oss frelsa nu, fraa vorre Mædu laangre, þeim bundner eru biarga þu, burtu fraa þeirra Angre, Hoop þijnum Christna halltu vid, Huggun veit þeim og goodañ Frid, i Heims Astrijdu straangre.

Sem Borgena Bethulia, brioota villde med Sverde, Holophernes, sem hafde þa, Hatur a þijnu Orde, leister þu i þeim litla Stad, Lijd allañ sem þig jafnañ bad, Frw Judith þad fullgiørde.

Eins er nu Zion siaalfs þijns Borg, sokum Kieñinga þiña, af Verolld bweñ Svik og Sorg, sækest hana ad viña; Allema þu Guds Einka Son, ert heñar Vernd og Hiaalpar Von, Hiaastod laat hana fiña.

Heilagre Christne hallt þu vid, Heidner so alldrei eyde, veit þu oss DRottiñ Vernd



og

og Lid, vid Dioſuls Flærd og Reide, ſend oſs af Myſkun ſaña Trw, ſo oſs til Enda ſtyrke ſw, og i Lijf til Þijn leide.

Heidrum Gud Fodur og Frelſarañ, fyrer Myſkun margfallda, og Heilagañ Anda Huggarañ, hvor oſs vid Trw vill hallda, Dijrd Guds ſem var i Upphafe, eins nu a Jordu og Himnum ſie, um̃ Allar Allder Allda.

## Eptir Bleſsan þennann Pſalm.



Gled þig Guds Sonar Brwd, Gled þu þig vid þiñ Gud, bygg ad



hañs Hiaalpar Raadi, hvar um̃ Prophetiñ ſpaadi, Hoſiaña Heidur



og Æra, vorum HErra JEſu kiæra.

Greidt

Greidt wt af Salnum gær, Glede þiilna ad siaa, syrg ecke Zions Lijdur, Sonur Guds til þijn rijdur, Hosianna Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

O! siaa ein Asna ber, þann allra DRottenn er, Prial hanns er fatt ad finna, fliott kann þo Daudann vinna, Hosianna Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Hann prijder hoogvært Gied, og Hiartans Giædska med, sa vill Naad sijna giefa, sinne Brwdur ann Efa, Hosianna Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Opna þu Porten oll, Jnntak Guds Son i Holl, hann sie hiaa þier til Giesta, Hiælpræded allra besta, Hosianna Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Kvistu og Klæde aa Leid, Kongsins med Audmykt breid, Foolked skal færa Palma, fagrann Vid, og Lof-Psalma, Hosianna Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

Ungbarna ægiætt Val, allt ad eins giora skal, sa heile Saungva-Skare, sijna Lofgiord ei spare, Hosianna Heidur og Æra, vorum HErra JEsu kiæra.

## Annann Sunnudag i Adventu, allur Saungur sem þann Fyrsta.

Epter Blessan syngest þesse Psalmur. Ton, Heimile vort og Hwsenn med, etc.

TAlar JEsus ad Teikn mune skie, a Tungle, Soolu og Stiornum, og Ognar Kvol aa Jordunne, yfir þeim Kvijda giornu, Sioor og Bylgiur þa hlioода hatt, fyrer Hrædslu Menn þa missa Maatt, af Heims fræbærum Fyrnum.

Kraptar Himnanna hræraſt þa, hijngad i Skye mun koma, Mannsins Sonur af Himne haa, med heilogum Dijrdar Looma. Nær þetta skier, þa hefied hatt, Hofudenn upp, þvi nalgast brætt, Endurlausn ydar med Sooma.

Fyrer ydur virded Fijkiu Trie, og fleire Sykur Skoogar, þier vited, ad nærre Sumri sie,

sie, þa sijna þau Bloomur noogar, eins lijka þañ Tijd þetta skier, þeinkid Guds Rijki nálæger, Utvölldum øllum þegar.

Sañlega Sañlega sagdi hañ: Sveitinn christiña Maña, forgaanga ei nie eydast kañ, iñ til þessi slukt sær kaña. Jord og Himnar forgaanga fliott, følnar giørvallt og hrørnar skiott, utañ Guds Ordid saña.

Eg trwe þvi sem þu sagdir hier, sæti Guds Son og milldi, bid eg þu giefir vel Gaum ad mier, og gelmir med Hlijfdar Skilldi, auktu mier Krapt i Eymdum þeim, sem yfirfalla þa þeñañ Heim, stødugur standa villdi.

Fødur Syni og Anda sie, ædst Dijrd um Jord og Himin, eins sem hun var ad Upphafe, an Enda verdi framiñ, kieñ oss ad hallda christiñ Sid, kvittast og skiliast Syndir vid, sa þad vill sijngi Amen.



## Pridia Suñudag i Adventu, allur Saungur sem 1. og 2.

Eptir Blessan.







Þu eirn heilagañ Hug og Raad, og hreint Framferdi veitir, gief oss þad Hiarta af þiñi Naad, þijns Ords alleina leiti, eptir þvi i Trwñi breiti.

Þu

Þo vor Misgiörd ſie mörg og ſtoor, med Naad virdiſt þad bæta, af Liſkn og Myſkun lijt til vor, laat oſs ei Reidi mæta, fyrir JEſum Son þinn ſæta.

Um þad bidium vier oll þijn Born, ad Fri vilier oſs giefa, med þini Hond og milldri Vorn, mooti Ovinum oſs hlijfa, þier til Lofs ſo mættum lifa.

## Fioorda Suñudag i Adventu, ſijngiſt ſem 1. 2. og 3. Eptir Bleſsan.



Saa Vitnisburdur hiñ valldi, vottaſt nu giorla hier, Fraa JEruſalem þeir
Er Johañes Judum taldi, Jaatning hañs ſonn þad er.



ſenda, Syni Levi vel kienda, med Hofud-Preſtaña Her.

Þeir friettu ad hvort hañ væri, HErrañ ſaa Chriſtur ei? Hann ſvarar ſem honum bæri, ſegiandi vid þvi nei. Ertu Elias froodi? eda ſaa Spaamañ goodi? Nei kvad hañ þvert vid þvi.

Framar þeir frietta villdu, og færa Svar heim med ſier, baudu hañ ſkijra ſkylldi, ſkiootlega hvor hañ er, og þvi ecki tregdi, Eitthvad ſo lioost hann ſegdi, riett af ſialfum ſier:

Johañes anſa nædi, Eg er þad Raddar Hliood, ſem Eſajas um ſpaadi, af Eydimorku ſtood; Gotu DRottni þier greidid, og

giorid

giorid hañs riettar Leidir, huggist nu Hiortun good.

Frá Phariseunum fooru, fyrr-greindir Sendi-Menn, sem af þeim valldir voru, voktu þa Spurning enn: þvi skijrir ef ertu eigi, af Þremur þeim Eirn eg segi? Ansar þeim ollum senn:

Eg skijri i Vatni ad Vanda, veit þo hiagdur hann, midt i Midiu standa, munud ei kienna þann, eptir mig kiemur hinn kiæri, þo kroptugur fyrir mig væri, Heimsins Hiálpar-Mann.

Þo framfallandi eg færi, ad Footum þessa Mañs, verdugur ecki væri, ad vera þo Skoo-Sveirn hanns. Sw Skijrnar Skickan klaara, skiedi i Bethabara, vid Jordan Juda-Lands.

Eg er nu JEsu goodi, þiñ aumur Læresveirn, kalla med hvellu Hlioode, hvørn Mañ jafnt sem eirn. Veit þu eg Veg þiñ greidi, og Volada til þijn leidi, Sie trwr og Hiarta hreirn.

A Fædingar Hatijd Lausnarans JEsu Christi, Messu Upphaf.



Frelsariñ er oss fæddur nu, Af Mañs Voldum ei visse
Hañs froom Moodir var Joinfrw.



sw, i Heim til vor, af Himnum foor, su Heillin stoor.

Med

Med oss er Gud Emanuel, Ord þau bodade Gabriel, um̃ það vitnar Ezechiel, Guds Fodurs Son, Giof Lijfs og Von, vor giordest Þioon.

Ord Davids vel uppfyllast hier, og hvad skrifa Spamēñerner, Christur sa Eingla Kongur er, hvørn Fiær Meñ sia, i Jotu ꝏ, ein Mañeskia.

HErrañ ofañ af Himnum stie, heriade epter Mañkyne, þvi vill hañ kvitt af Syndum sie, Saal hvørs eins Mañs, og hoolpeñ til Sañs, med Mystun hañs.

Follum nu til Foota Christs, sem fæddest oss til Lausnar vijst, fieck oss a Himnum Frid og Vist, sijnge hañs Hiord, honum Lof og Dyrd, og Þackargiord.

Añar Introitus, þeir meiga og bæder sijngiast.



Heidra skulum vier Herrann Christ, ad hañ Madur oss fæddist, af hreinni Jomfrw Maria, og þvi gledst øll Sveit Englaña, Kyrie-eleison.



Son Eilijfs Fodurs Eingietinn, i Stallinum nu finna Menn, vort auma Holld og Blood nu ber, Blessadur Gud a sialfum sier, Kyrie-eleison.

I Meyar Lijfi hvijlist hann, hvern viid Verolld ei lykia kann, sa er nu ordinn ungur Sveinn, sem ollum Hlutum stioornar eiñ, Kyrie-eleison.

Eilijft Lioos Jñgeingur þar, alla Verolld ypplioomar, midt i Myrkri lioomar þad Lioos, Liooſsins Born þad giorir oſs, Kyrieleiſon.

Sannur Guds Sonur Fodurſins, ſiaalfur vitiadi Mañkynſins, ad leyſa oſs wr Eymdar Dal, og Arfa giora i Himna Sal, Kyrie eleiſon.

Faatækur kom i Heimiñ hier, hañs Myſkun ſo ad fengium vier, og aa Himni yrdum Auduger, Einglum Heilogum ſamlijker Kyrie eleiſon.

Þetta hefur hañ allt oſs veitt, ad ſijna þad oſs elſkar heitt, Guds Chriſtne oll þvi gledieſt nu, Gief þa þacke ad Eilijfu, Kyrie eleiſon.

KYRIE.

Kyri - e Gud Fadir Himna Rijkia, Son þiñ þu ſendir til Jardrijkia, þvi Myſkun þini ei fraa oſs villdir vijkia. Chriſte Guds Sonur Himnum fraa, þu fæddiſt Madur hier Jordu aa, ſo vier mættum verda Guds Born

Børn hier hiaa. Ky - ri-e Hellagur Andi, hvørs Verk þad var, ad hrein

Mey ann Mañs þvwngañ bar, læt oss i Syndum ei deyia hier, gef

helldur Christum med oss hofum vier.

GLORIA.

Gloria Dijrd Heidur sie Gudi i Hædum, og a Jordu Fridur øllum

Møñum, og Good = ur Vilie. Vier lofum þig, Vier Veg-

D. sømum

sömum þig, vier Gøfgum þig, vier Dijrkum og Heidrum þig.

Þacker gjørum vier þier, fakir mikillrar Dijrdar þiñar, Drottiñ Gud Him=

neskur Kongur, Gud Fad=ir Almaatt=ug=ur, Drottinn Einget=inn

Son, JESU Chri=ste, og Heilagur Andi, DRottiñ Gud, Lamb

Guds og Sonur Fodursins, þu sem burtu tekur Syndir Heimsins,

Myſku = na þu oſs. Þu ſem burt tekur allar Heimſins Syndir,

Tak til þijn vorar Audmiwkar Bœnir, og Myſkunſamlega heyr þu oſs.

Þu ſem ſitur a hœgra Veg þijns Eilijf = a Fodurs, Myſku = na þu oſs.

Þvi ad þu eiñſamañ ert Heilagur. Þu eiñſamañ ert DRottiñ. Þu

eiñſamañ ert hiñ hærſti JESU Chriſte, med Hei = lögum Anda,




HALELUIA.










Blessadur



Blessadur Gud oss kiendl, Ha le = = = lu ja.

SEQVENTIAN.



Nu vilium vier allir þacka Gudi vorum HErra, sem med sinni Fædingu hefur oss leyst,



Heidra skulum vier Herrañ Christ. Syngist Prisvar.

fra Diofulsins Vallde og Herteknïngu, Lofed DRotteñ.



Honum ber jafnañ ad vier syngium med Einglunum, Dyrd og Priis sie Gude



Fodur i hærstum Hædum.

Messu CREDO Noterud sem nærst mætti eptir Latinuni.



Vier trwum allir a eitt Gud. Fødur Almaattugañ, Skapara Him-



ens og Jardar, og allra Hluta Sijnelegra og Osijnilegra. Og a eitt



Drottiñ vorn JEsum Christum, Eingetiñ Guds Son, Og af Fødurnum



Fæddañ, fyrir allar Alldir. Gud af Gudi, Lioos af Lioosi, eitt sañañ



Gud, af Gudi sañum, getiñ eñ ei giørdañ samrar Veru med Fødurnum,



fyrir hvørn ad allt er giørt, Hvør vegna vor Mañaña, og vorrar Heilsu



Sakir, stie nidur af Himni, Og took Holdgan af Hellags Anda Krapti,



Af Mariu Meyu, og er Madur vordiñ. Hañ er og fyrir oss krossfestur,



undir Pontio Pilato, var hañ Pijndur og Grafiñ. Og er Upprisiñ



á Pridia Degi, eptir Ritningunum. Og hañ uppstie til Himna, Situr



til hægri Handar Fodursins. Og hañ muñ aptur koma med Dijrd til ad



dæma, Lifendur og Dauda, a hvørs Rijki ei mun verda Endir. Og vier



trwum a heilagañ Anda, DROTTiñ allt lijfganda, af Fødur og



Syni framfaranda, hvør med Fødur og Syni aasamt tilbeidist, og a vallt



samdijrkast, hvør ed mællti fyrir Spaameñina. Og eina Heilaga Almeñi-



lega Christni, stadfesta fyrir Postulana. Og vier jaatum eina Skijrn



vera til Fyrirgiefningar vorra Synda. Og eptirbijdum Upprisu allra



Daudra Maña. Og Lijfi þeirrar komandi Verolldar, A = men.

Adur eñ Gudspiallid er upplesid, Syngist þetta Vers.



J Dag Eitt Blessad Barnid er, borid og fædt i Heiminn. Væri þad
Af hreirni Mey oss Aumum hier, er til Lausnar kominn.



Barnid oss ei fædt, allir hefdum vier Dauda mætt, af þvi kom allt hid Goeda, O



vor sæti JEsu Christ, er eirn Madur oss fæddist, hlijf oss vid Helvijtis Voda.
Honum ber jafnañ, etc. Eptir Predikun, Heidra skulum vier HErrañ Christ.
Strax þar eptir uppbyrie Presturiñ præfationem, A þennann Hatt.

DRott=




Drottiñ sie med ydur. Og med þínum Anda. Lyptum upp Hiörtum




vorum til Himens. Vier hefium þau til DROttins. Þackum




oss þacka DRottni Gudi vorum. Þad er tilheyrilegt og riettvijst.



Sañlega er þad Tilheyrilegt og Riettvijst, Skylldugt og miög Hiälpsamlegt,



Ad vier alla Tijma og i öllum Stødum Lofum þig og þackum þier, þu Hei-



lagi HErra Almattugi Fadir og Eilijfi Gud, fyrir JEsum Christum vorn DRott-

DRottinn, þu sem fyrir ORDED, sem að sig tok Mannudoom, i Lioona þinnar

Byrtu, upplijsir vor Hugskots Hiortu med nyju Lioosi. So ad nær vier hers

lega þeckium Gud, ad vier þa mættum i riettum Kiærleika, til saurrar Aftar

og Gyrndar Oforgeingilegra Hluta, verda uppkveiktir. Og þar fyrir med

Englunum og Hofuds-Englunum, med Thronunum og Magtarvolldunum,

Somuleidis asamt med ollum Himneskum Hyrdsveitum, Syngium vier

Lof=



Loffaunginn þinnar Dyrdar, O - afmætanleg - a- Segiandi.

SANCTUS.



Hei = lag = ur. Hei = lag = ur. Hei - lag - ur ert þu DRottin



Guð Zebaoth, Himnarnir og so Jordin, e = ru full af Dyrd þin-



ne. Hoolpna giør þu oss i Hædum. Blessadur sie sa sem



kiemur i Nafni DRottins. Hoolpna giør þu oss i Hædum

Eptir Sanctus fylgir Aminninginn til þeirra sem ganga til Guds Bords, etc.
Eñ a medañ Sacramentum wtdeilist, þa sie sungid.



Vier sie Lof og Dijrd JEsu Christ, Blessadur sie þessi Dagur vijst,



Þig lofum vier nu og æfiñlega, Heilagur, Heilagur, Heilagur, ertu a



Hædstum Hædum. Englarnir og Høfudenglarnir, Thronarnir og him=



neskar Hyrdsveitir, þig lofa Cherubim og Seraphim, Heilagur, Heilagur,



Heilagur, segist þu i Hædiñi. Þitt Foolk o Christe lofar þig, þijn Brwd=



ur af Hiarta nu gledur sig, fyrir þijna Naad og Myskunsemi, Heilagur,



Heilagur, Heilagur, hun lofar þig.

Eptir Blessan.



Boriñ er Sveiñ i Bethlehem, i Bethlehem, þetst gledst af þvi Jerusalem,



Hale = luja.

J hördum Stalle hvijlest sa, hvijlest sa, hvors-Rijke alldrei endast maa, Haleluja.
J Hwse Uxa og Asna þar, Asna þar, eilijfur Drotteñ fæddur var, Haleluja.
Vijser af Austre færdu Fie, færdu Fie, fagurt Gull, Myrru og Reykelse, Haleluja.
Fæddur af Moodur Meyu var, Meyu var, Mañs Volld eingiñ komu til þar, Haleluja.
Ormsins Spylling ei var aa þeim, ei var aa þeim, af Bloode voru barst i Heim, Haleluja.
Hañ lijktest oss ad Hollðsins Mynd, Hollðsins Mynd, hreirn og Ojafn oss ad Synd, Haleluja.
Ad oss med Glædsku giörde hier, giörde hier, Gude lijka og sialfum sier, Haleluja.
A Fædingar Haatijd Frelsarans, Frelsarans, fagne og synge Christneñ hañs, Haleluja.
Helgasta Þreñing heidrud sie, heidrud sie, med hreinre Trw og Þacklæte, Haleluja.

## Añan Dag Joola

Introitus, Kyrie, Haleluja, Seqventian, Credo, og Verseñ af Predikunar Stoolnum, so sem aa Joola-Dageñ. A medañ Sacramentum wtdeilest: Pier sie Lof og Dyrd JEsu Christ.

Pro Offertorio.



Sijnged Gude sæta Dijrd, Þar med Lof og Þackargiörd, nu byrtest Zion og öll Christeñ Hiörd.

 sæi,

sa, sem fæddi Mey Maria. Framkom allt sem fyrr var mællt af Gabriel,

Eya, Eya, Jomfrwen bar Gud i Heim, Faderinn i Syni þeim oss tok i Sætt

Nu i Dag auglljstur er, auglijstur er i Jsrael, Kongur hær sem Meyann

klær oss hefur fædt. Dæsamlegt er DRottins Nafn, Emanuel, umm hvad

ædur sagt er fyrir Gabriel.

JEs=

JEsum Christ i Heim oss bar, Jomfrw sem hans Mooder var, um Mans Volld ei visse par. Nu byrtest sa, sem fædde Mey Maria. Framkom allt sem fyrr var mællt, etc.

Fæddum Kongе sagne Piood, fagurt syn-ge Börnen good, seige hvor sem hefur Hliood. Nu byrtest sa, sem fædde Mey Maria. Fram-kom allt sem fyrr var mællt af Gabriel. Eja, Eja, Jomfrwen bar Gud i Heim, etc.

Zion lofa Lausnaran, Lijf-Giof vora Gud og Man, Synd og Kvol oss svipte han. Nu byrtest sa, sem fædde Mey Maria. Fram-kom allt sem fyrr, etc.

Epter Blessan, skal syngia þennan Psalm.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

GLde sie Lof fyrer Gledeleg Jool, gladt skijn fogur Rettlætis Sool, Guds Son upp-ran a Himna-Hæd, hier a Jord giordest Kvinnu-Sæd, Auglijstest han med Ast og Frid, under hans Væng var Hiælpræðid.

Upplijsta Men med Ordsins Ment, all-marga hefur til vor sendt, han vill med Fod-urnum hiwka ad, hvorium sem kunna ad þeck-iast þad, hvor til hans leitar Huggunar, hon-um han alldrei frawijsar.

Dæme Gydinga daarlegt er, DRotten soodur þvi fordа mier, þeir villdu ei þitt Væ-ngia Skiool, Villu-Myrkren hofuudu Sol, Hws þeirra fyrer HErrans Magt, hard-lega var þvi eydelagt.

So ecke kome a mig stefnd, alls Riettlæts Blods hin saara Hefnd, hvor þeim Forherd-tu hootud er, sem hrinda Drottens Naad fra sier; Giefdu HErra ad Hug-Ast mijn, hijrlega take Bodum þijn.

Un mier ad suwast æ vel vid, ollum þeim sem mier boda Frid, ad eg sem Hreidur-Unge þin, Athuge Gagn og Heidur min, og and-sveipur med Elsku-Traust, adhyllest þijna Naadar-Raust.

Og þo eg yrde eirn fyrer þvi, Utfor ad reina Stephani, ef þad min DRotten þocknast þier, þessa Heims lijdi Offookner, Jaa, þo mig deyde daarleg Piood, dijrmætt er fyrer þier mitt Blood.

 Andlegan

Andlegañ Styrk mier auktu þa, er eg skal Heime fara fraa, ad Gied hijr mijna glijpa Önd, giefe eg JEsu i þijna Hönd, Hörmum mijnum i Huggun snw, og Himnenum fyrer mier upplijk þu.

Sofna laat mig i Sælre-Roo, Sælañ med helgum Stephano, og þo eg kañe Abels Neyd, iñ i þiñ Dijrdar Fognud leid. Fram-før mijn sie, þo fylleſt Kijfs, Fædingar-Dagur til eilijfs Lijfs! Amen.

## Þridia Dag Joola, Messn Upphaf og allur añar Saungur,

fyrer og epter Predikun, eins so sem Añañ Dag Joola.

Epter Blessan þeñan Psalm, med Lag, Osañ af Himnum hier kom eg, etc.

HErra JEsu mijn Heilsu-Giof, Heidur sie þier og Eilijft Lof, Hiarta-Gied þitt og heilagt Maal, huggar stoorlega mijna Saal.

Þañ sem neitade Prisvar þier, þijdlega aptur Naadader, og afhenter honum Embætted, sem aumlega hafde forbroted.

Ad hañ skyllde med Orde og Giord, anvistast þijna Sauda-Hiord: hier af merke eg þig Hyrder miñ, heite eg utvalen Saudur þiñ.

Elur þu jafnañ Öñ fyrer mier, og Umbod þitt þar til Brædrum lier, so Lomb þijn ecke lijde Neyd, lijtel Trw biargast vid þiñ Eyd.

Glotun Syndugs þu gyrnest sijst, Grætande villt hañ Leidriettist, med Petre so meige fiña Frid, og Fyrre Nafn-Bootum taka vid.

Johañes er þu elskader, um þig eitt Sañleiks Vitne ber, uñter þu honum leynt og lioost, og lagder sem Ung-Barn þier aa Brioost.

Hañs er Miñing nu hallden frijd, aa helgre þiñe Burdar-Tijd, um eilijfs Gietnadar Upphaf þijns, Upphaf liet vera Gudspialls sijns.

Lærefveirn þesse styrkur stood, studde hañ

Gud=

Dooms Vitskañ frood, odladest Glede, adsemd, og eilijft Nafn i Himneskre ænid.

Myskun þijn JEsu mættug ein, mig gioꝛ soddañ Lærefvein, sem eilijflega elsker þu, auk mier Gudhrædslu Dygd og Trw.

Andꝛa þiñ lat þu orva mig, so elskad fare eg af Hiarta þig, eins og Petur, epter sitt Fall, einkum þa Hana-Raustteñ gall.

Eins þo so fᵢlle uñ miñ Hag, ætte eg med Petre Sorgar-Dag, og dragest mitt Hollð a Daudans Stig, dijrkad so fare eg þar med þig.

Elskhugeñ sæte uñ þu mier, ad epterfylge eg giarnañ þier, i Hoogværd, Audmykt Hlijdne og Ast, halde mier jafnañ vid þig fast.

Helgra Maña so hafe eg Sid, hvad sem mier kiemur ecke vid, ad eg þar alldrei uñ hnijsest, eñ athuge siaalfs mijns Skylldu Brest.

Ædste Hirder og Elskañ mijn, al þu oss veikleg Lombeñ þijn, med Orde og Raad i Heime hier, og Himnesku Brauðe sijdar meir, Amen.

---

Suñudageñ mille Joola og Attadags, allur Saungur fyrer og epter Predikun, eins og a Añañ Dag Joola, fyrer utañ Credo, Vier trwum aller a eirn Gud, Skapara Himens etc.

Epter Blessan þeñañ Psalm, med Ton, Heimile vort og Hwseñ med, etc.

Forelldrar JEsu fuller af Ast, Fregn nær Ved heyrdu þessa, af honum sagda, ad þvi daast, eñ þan Simeon blessar, seiger vid Mariu Moodur hañs, morgum til Falls er sa til Sañs, eñ suma mun samt vid hressa.

Hañ er þad Teikn og Hæfed sitt, hvorium þeir tala a moote, eñ Harma Sverded Hiartad þitt, hart trw eg særa hlioote, so margra Hugskot og Hiartans-Þel, hygg eg þa verde auglioost vel, þo añad yfer flioote.

 Phanu-

Eg befel mijna aumu Aund, og vesælan Lijkama, og bu-fanda Lif i þijna Hond, þennann Dag og hvern Tijma, Hegdan, Vit, Skin og Hiartad allt, Hugsun, Skilning og Sinni, sem Maal og Mini, Ord og Giørdir og Aform allt, innlæsi eg Tilsioon þinni.

Blessa þu Inn og Utgaang minn, og allt hvad eg skal vinna, Vidmoot og Hegdun sierhvert Sinn, Sess og Gaang Foota minna, Idiu, Vilia, Raad, Asetning, allt hvad eg er og orka, til Vits og Verka, i Utfør gevin mijn allt um kring, og giør þa Trwna sterka.

Hvad þier til Dijrdar einn Gud er, og til Velferdar minnar, framkvæm þad allt i aumum mier, af Nægd Myskunar þinnar, Enn ef i Dag þijn Bodord brijt, Breiskleika mijnum vægdu, og Hegning hægdu, Hiaalp og Naad þinni Fadir fliit, forþienta Reidi lægdu.

Einginn er Gud annar enn þu, og einginn Hiaalparinn Manna, þvi bid eg þig i Naudsyn nu, Naad þijna læt mig kanna, geim mijn fraa allri Glæpa-Slood, gief mier þitt Ord eg læri, og Avoxt færi, Fyrir JEsu blessada Blood, Bænheyr mig Fadir kiæri.

## Morgun-Psalmur, med Ton, Oss maa auma kalla.

HEidur og haaleit Æra, Heiløgum DRottni sie, sem oss vann endurnæra, med allskyns Roosemi, veitandi Værd og Naadir, veriandi Myrkra Her, ad oss so giørla gaadir, Grandlauser vøkum vier, Gud minn oss geymir vel, Gud blessar Israel, Guds Børn Gude eg fel.

Hvør kann ad hugsa og reikna, hvad margt Eitt Andartak, liwfur DRottinn oss lijknar, og lætur sofa med Mak, elur so Dun aa medann, øllum sem treysta aa hann, þar til hann hiaalpar hiedann, i Himneskann Dijrdar-Rann, Gud minn oss geimi vel, Gud blessar Israel, Guds Børn Gudi eg fel.

Ei kann eg wt ad skijra, alla þaa stooru Naad, sem Gnds mijns Giædskann dijra, Grunnlaus hefur mier tiaad, eg gledst i Gudi mijnum, þeim gooda Lijfsins Brunn, Saal mijn med Sætleik sijnum, syngi med Hiarta og Munn, Gud minn oss geymir vel, Gud blessar Israel, Guds Børn Gudi eg fel.

I JEsu Edla Nafni, eg byria þennann Dag, blessi hann øll mijn Efni, Andar og Lijfsins Hag, fra øllum illum Kindum, Adstod hanns hlijfi good, fordi vid Falli og Syndum, forlijki mig hanns Blood, Gud DRottinn geymi oss vel, Gud blessi Israel, Guds Børn Gudi eg fel.

Himin, Haudur og Geymar, Heitt sem einninn Kallt, og allt hvad þar inni sveimar, Hønd DRottinns geimi þad allt, einkum hanns Edla Christni, ædri og lægri Menn, verndi vid Voda og Freistni, vel-

signi oss Eining Þrenn, Gud Drottinn geymi oss vel, Gud blesse Israel, Guds Børn Gudi eg fel.

Lotning og eilijf Æra, ædstum Fødur sie, samt hanns Syninum kiæra, sem er vor Frelsare, hier med heilsgum Anda: Hiaalpi til Þrenning skiær, Fognudi Lijffsins lenda, Lioosß Degi hroosum vær, Gud DRottinn geymi oss vel, Gud blessi Israel, Guds Børn Gudi eg fel.

## Morgun Psalmur, med Ton, Endurlausnarinn vor JEsu Christ.

GUdi sie Lof fyrir-Lioosid gladt, lidinn med Værd er þessi Noott, eg vil upprissa, og minn Gud prijsa, Kyrie-eleison.

Hvørs Verk ad eru Himin og Jørd, hier med er Lioos og Dimman giørd, moot morgnum Voda, Mønnum til Gooda, Kyrie-eleison.

O minn Heilagi Herra Gud, Hiartans Dag-Stiarna sæl og glød, upp, upp mijn Saala, umm hana ad tala, Kyrie-eleison.

So marga Lofgiørd segi eg þier, sem þu gafst Andar-takid mier, umm Æfi mijna, og alla Blessan þijna, Kyrie eleison.

Eg bid þig nu audmiwklega, J-klæd mig Christnum Herskrwda, send Sigur-Hreysti, Sigrarinn betsti, Kyrie-eleison.

Mijnum Misgiørdum Gud minn gleym, Gud minn laat mig ei deya i þeim, minn Verk od stunda, veit mier aa Synda, Kyrie-eleison.

Forsorga þu mig Fadir sæll, fyrst eg er þinn dijrkeyptur Þræll, Saal og Lijf sedier, Samvitskuna gledier, Kyrie-eleison.

Laat mig so sem þu vera villt, verdi Naadar Heit uppfyllt, aa mier og mijnum, med Krapti þijnum, Kyrie-eleison.

Gef mier ad skynia endast aa, Æfi-Dagar og Lijfsins Stiaa; minn JEsu goodi, mier øllum raadi, Kyrie-eleison.

Eg fel mig og øll Guds Børn, i JEsu Naadar-Skiool og Vørn, i Himnarijki, hann oss inntaki, Kyrie-eleison.

Gudi Fødur og Syni sie, samt helgum Anda verkande, Heidur og Æra, Hvijld fyrir væra, Kyrie-eleison.

## Morgun Psalmur, med Lag, Himna Roos, Leid og Lioos.

DAgur er, dijrka ber, DRottinn Gud minn, Noottin lidinn; Lof sie Gudi, Lioos skijn, gledur eim, marga Menn, Myrkra Flottinn, Lijf og Saal, lijka Maal, lofi DRottinn.

Fyrir þinn Son, Sæln-Von, sie þier hærst Lof,
nig þu spardir, Meinum vardir, minn Gud, mier
asst Frid Lyfn og Lid, leid so Noottinn, Lijf og
Sæl, lijka Mæl, lofi Drottinn.

Mig hefur leidt, Meinum eydt, Myrkuninn þijn,
voria Stundu, a Heimsins Grundu, hier til, af-
end þier, ei fra mier, nær afleag Proottinn, Lijf
g Saal, lijka Maal, lofi DRottinn.

Eg bid þig, annast mig, enn i Dag æ, fyrir bann
eta, Saalar næta, Son þinn, veit mier Naad,
ernd og Raad, Vægd og Lidsinn, Lijf og Saal, lij-
Maal, lofi DRottinn.

Helgann Dug, hreinann Hug, hia mier uppkv-
, þier ad hlijda, lijka lijda, Laun Dags, og Pwng-
ann med,holngt Ged, breyta hlijdinn, Goodañ Dag,
gladann Hag, gefi oss DRottinn.

Hvad eg hier, forma fer, fariælist vel, Utgaang,
Framgaang, Inngaang blessa æ minn, og i Naad,
allt mitt Raad, annast hvort Sinn, Goodann Dag,
gladann Hag, gefi oss DRottinn.

Eg fel þier, allt hvad mier, adur gafstu, sie þinn
Dugur, mier maattugur minn Gud, bæti sa, betst
sem ma, Breiskleika minn, Goodaun Dag, gladañ
Hag, gef oss DRottinn.

Lijf og Aund, Efn nu vond, eg nu þier fel, ollu
Illu, Voda og Villu, ver mig, Svom og Dijrd,
sie þier skijrd, sijfelldt Gud minn, Lijf og Saal,
lijka Maal, lofi DRottinn.

## Lof-Saungur þeirra Heilogu Lærifedra, Ambrosii og Augustini.

Fyrsti Koor.




Annar Koor.




Allir

Fyrsti Koor.



Allir Englar og Himna Her,



Þig Cherubim og Seraphim,



Heilagur er vor Gud.

Añar Koor.



Og hvad til Heidurs þienar þier,



Lofa jafnlega med Reddu sijn.



Heilagur er vor Gud.

Baadir Koorar til samans.



Heilagur er vor Gud DRottiñ Allsherjar Raad.



Þijn Guddoomlega Makt og Dijrd, Meiri er eñ Himiñ og Jord,

Fyrsti Koor.



Dijr Søfnudur Toolf Postula,



Og Pijslar-Votta Fylking from



Pijn heilög Christine øll aa Jørd,



Pig Gud og Føður Almaattugañ,



Og helgañ Auda sem huggar best,

Añar Koor.



Og Lofleg Tala Spaamañaña.



Sijngur þier Lof med sætañ Room,



Fææer þier Lof og Packargiørd.



Piñ Eingieteñ Son, þier kiærastañ.



Eirn Gud og Preñañ medkieñest.

Fyrsti Kor.

O i Dyrdar Kongur JEsu Christ,

Jomfrwr Lijf hefur þu ei forsmaad,

Þu hefur Daudans Afle eydt,

Þu situr a Guds hægra Veg,

O. d..ū kiemur þad er vor Trw,

Aññar Kor.

Eilijfur Guds Sonur ert þu vijst.

So Mañkyn leysstir med þiñe Naad.

Og i Himna Hvijld Utvallda leidt.

þijns Fødurs dyrd er þier jamelgeñleg.

Lijfs og Dauda ad dæmer þu

Fyrsti Kor.



Hialp oss þijnum þionum Herra Christ



Leat oss ad Himnum ødlast Dyrd,



Þin Sofnud HErra hoolpen atør,



Hlijf þeim stioorna og æ siert hiaa,



DRotten þig lofum vier Daglega,



Hlijf og geym oss a hvorre Stund,

Aññar Kor.



Hvøria med Bloode hefur þu leyst,



Eilijflega med þinne Hyrd.



Og blessa þaa sem þin Arfur er.



Og Æfenlega upphefier þaa.



Og dijrkum þitt Nafn Æfeñlega.



Vid Illgiordum og allre Synd.

Fyrsti Kor.



Myskuna oss O Millde Gud!



Þijn Vernd yfir oss ætijd sie,



A þig DRottenn er øll vor Von,

Annar Kor.

Og Naada oss i allre Naud.

Þu ert vor Heill og Hiælpræde.

Alldrei læt þu oss verda ad Smaan.

Baader Korar til samans.



A = men.



# Viku Saungur Kvølld og Morgna,

wtdreigenn Af

Fyrsta Skøpunar=Verke, Fyrsta Ordi Christi aa Krossenum;

# Og Fyrstu Bæn i Fadirvor.

Af Saal. Sr. Joni Magnussyni i Laufaasi.

## Sunnudags Morgun Psalmur.

Ton, O Gud vor Fadir sem i Himerijke ert.

NAfn Guds sie blessad, nu er Vika nij komin, þan hellsta og fyrsta hennar Dag, helgann Sunnudag köllum, a honum giordist Himin i Fyrstu, og Haudrid senn, þar med komst og þad Lioos i Lag, sem lijsir enn Augum öllum. Vier trwum allir a eirn Gud þann, allt þetta sem skapadi, hann og vid Makt þvi hallda kann, hroosa skal þeim Verknadi, helgadur DRottni, hvor einn Mann, hier og i alla Stadi.

Dijrd i Upphædum dyrdarfullum Drottni sie. Ordid vard Holld og hia oss bioo, hvers Fullnad eg a treysti. JEsus sa Guds og Jomfrur Son a Jardrijke, saklaus sem Lamb fyrir Syndir doo, a Soolar-Dag upp sig reysti. Med fyrsta Ordi a Krossi klaar, Kvolurum Lyknar beiddi, læknadi öll vor Saalar Saar, Sunnudags Hvijld tilreiddi, i Sigur upp Daudans svelgdi Faar, Satans Makt alla deyddi.

Hæsti Lof sie Gudi sem hefur oss alla helgad sier, fyrir sitt Ord og Andann med, er yfir Skijrn Vatns sig færdi, eins og hann nærdi Afgrunn dymt i Upphafe, a Postulum hafa Menn Svip hanns sied, sierhvern a Tungur lærdi, endurnijar hann hvers þess Hag, er Hvijldar Minning Guds prijdir, himneskur Blær med himneskt Slag, holldlega Vanart þydir, andlegum sælann Andlaats-Dag, eflaust stiptar unn sijdir.

Heilagi Gud, sem Himna stijrir hæum Troon, i Helgidoominum Heimili aatt, og hia þeim, sem Syndir græta, Fadir vor ertu fyrir þins Sonar Fridar-Boon, oss hefur tekid alla i Saatt, er Trw i Stadinn jaata, Þrenningar Eining þitt Nafn a, þar fyrir af Hiarta bidium, ad þad verdi oss helgad hia, helgudum

um Fridar-Ridium, Vanhelgan allri vijk þu fra, veit oss ad heilagt ydium.

I Skyrniñi hefur oss Skaparans Fingur skrifad iñ, i Preñingar Nafni i þad Mañtal, er þvæsti i Guds Sonar Bloodi, Ceremoniu settri fylgir Sættmaliñ, so vier vitum hvad vera skal, veit oss þvi DRottiñ goodi, Hlijdneñar Anda Hættalag, Heidur þiñ fremst ad rækium, helgum þitt Nafn og Hvijldar-Dag, Hialprædi til þijn sækium, Naunga vorra hlijsum Hag, hafnandi Vansa og Klækium.

Siaa oss og øllum syndugum Moñum sæta Vægd, þiaair oss dagleg Prælkan hier, þar fyrir Hvijldar leitum. Laat þu oss finna Lykn hiaa þier og Hugar-Hægd, nu medann Tijmiñ Naadar er, Nafni christnu sem heitum, so ad vier flijum Faar og Bañ, eñ Fridar helgra Gudspialla, endurnæri vorn innra Mañ, ytri nær fraa skal falla, Hvijldar-Dag sijdañ himneskañ, hølldum uñ Alldir Allda.

## Suñudags Kvølld-Psalmur. Ton, Gud myskunt nu øllum oss.

Pier Lioossins Fadir Lof sie tied, Lioossins nu kvøldar Degi. Sioon vorri hefur þu Liosid lied, og leidt oss aa riettum Vegi, hvert øllum Heimi hefur lijst, Heimsins fraa fyrsta Dægri, þessi Dasemd mier lofleg lijst, lijka þo onnur frægri, fiñist og Naadar nægri.

Sæti JEsu vort Saalar Lioos, søñ Nægd af øllum Giædum, til Gledi og Prijdis øllum oss, upp ert ruñiñ af Hædum, þeim er sætu vid Meidsl og Mein, i Myrkri og Daudans Skugga, Uppspretta Lijfsins ertu hrein, Adams Børn kañ þad hugga, sem aññars mæa Angrid ligga.

Oss hefr skinid andlegt Lioos, i Ordi Guds lifanda, heilagt Mat-Bord med himneskt Gotz, høfum vier sied i Anda, Bæn-Hws Drottins oss hefur og hyst, hrundid þar Saalar-Mædi, vort Hugskots Myrkur er hætt upplijst, halldmr vel-a Guds Fædi, heyrdum og heilløg Kvædi.

Gud nadi ad nu gleymdur er, goods Dags Abatiñ besti, Ellds og Skijstoolpinn

undann ser, ei þrijtur Saalar-Nesti. Logmaal og Gudspioll Leid kinner, latir vier tijnum Vegi, Holld Guds og Blood oss Hwngriver, a heilogum DRottins Degi, Avoxt færum þo eigi.

JEsus grædi vor Vondsku Volld, og vora lagfæri Sidi, gefi oss enn nu gledilegt Kvolld, so gietum sofnad i Fridi. Laat oss Gud aungva lijda Neyd, honir Hvijld a sig taki, Astar-Skiool yfir oss alla breid, ad þrijstu Briosti og Baki, so aungvann hier uppa saki.

Vertu hia oss, þvi komid er Kvolld, Christni þinni vor HErra, a þessari Heimsins ytstu Olld, ei laat Trw vora þverra. Gud Fadir Son og Andi hreinn, oss blessi alla samann, vegsami hann og ottist einn, allt Mannkynid um Heiminn, syngium af Hiarta Amen.

## Maanudags Morgun Psalmur, med Ton, Heidur sie Gudi Himnum a.

HEidur sie Gudi Himnum a, og hærst Lof um Christinndoominn, Annann Dag Viku Augunn sia, yfirlioomandi Heiminn, a hverium Vatna Hvolfid blaatt, hann vijsann fyrir Guddooms Maatt, giordist, sem heitir Himin.

Himnarnir boda HErrans Prijs, med hann þeir fullir eru, einginn Skiepna þo er so viis ad hanns rannsaki Veru, i fraa Eilijfd var Eining klaar, i Einunginni Persoonur þriaar, fyrr enn Veralldinn voru.

Himin wr Vatni giordur glær, Guds nefndist Velldis-Sæti, þadann og þangad Naad hanns nær, Naudþurft sinna so bæti, hanns Sannleikur um Heiminn frij, hlioomar so vijdt sem skiwga Skij, gofgum hanns gudleg Mæti.

Adam syndgadi i Himininn haatt, hæddur af Satan ligna, Naad Guds took hann i sæta Saatt, so ad Himin leit rigna, þar hann blessadann sinn liet Son, Sædi verda fæddann af Kon, Mannsins Velferdar vegna.

Þa Christur a sijnum Krossi hieck, kvalinn ydrandi Madur, af hanns Munni þad Andsvar fieck, ad andast mætti hann gladur, Samdæg-

ris skylldi Saal hans vi s, sæl vera med sier i Paradys, feigum er þad Fagnadur.

Upp til Himnanna aptur foor, eptir Pijsl sina Christur, Hásiing sw er vor Heidr stoor, i Herradoom Guds er setstur, ad tilbwa oss þar væna Vist, Vinum sem hefur endurleyst, Eilijfligenn allra bestur.

I hans Nafne nu Hag vorn siaa, Himneski Naadar-Fader, laat oss Naad þijna halldast hiaa, so i heilogum Anda gladir, gøfgum þitt Rijki æ hiaa oss, enn eignunst sijdann þitt Dijrdar Hnoss, i Himna Vist heim feradir.

Heilagi Andi Hiaalpinn trw, Huggarinn allra besti, fraa Dioful's Svikum forda þu. Jl ock þeim sem JEsus leysti, med saarum Dauda og Undum sijn, wr Eymd og Neyd leys Christne þijn, sem af Hiarta aa þig treystir.

## Maanudags Kvølld Psalmur. Ton, Væri nu Gud oss ecki hiaa.

LAtum oss Hiortun hefia til, Himins medur Þacklæti, Gudi ber oss þaug giora Skil, glæsilegt sitt Haasæti, let oss i Dagsins Lioosi siaa, og lijka sem Þak þar undir gaa, er þad stoort Eptirlæti.

Hefur i Dag vor Skaparinn skiær, skijlt oss i Tialldbwd sinni, Aundina drogum eirninn vær, i Loptsins Vijdaattunni, Vinda Blær hefur Verolld nært, Vokva Jordunni Skyenn fært, einatt eptir Tijdinni.

Hvoria Asioon, sem Himin ber, og hvad sem wr Skyunum slijtur, eptir þess Vilia allt þad skier, sem efst aa Himnum situr, Himna-Rodinn og Heidrijkiann, haatt prijsa med oss Skaparann, og allskonar Loptsins Litur.

Vier þraa-shudgum i Himininn haatt, hvert vier þo Augum mænum, daglega raufum dijrsta Saatt, DNottinn vorn Heidri rænum, angrar oss nu sw Illskann slæm, O Gud, oss ecki i Reidi dæm, hlijd vorum Hiartans Bænum.

Tak oss nu enn i sæta Saatt, Synd oss fiarlæga giordu, eins og Himnanna Hvelfid blaatt, harla fiarstætt er Jordu, og sem þad breid=

eidist utann um̃ Fold, anniſt þijn Naad vort daudlegt Holld, og frije fraa Faari hordu.

Þijn Naad i Dag oſs giordi gott, Gud vor þad er þijn Æra, ſie hun og med oſs nu i Noott, Naudir oſs añars færa, heilagra Engla Himnum aa, Herſkarann lat oſs vaka hiaa, og Satans Valld fraa oſs færa.

Himneſki Fadir, Hag vorn ſiaa, hier aa Jord Vegfarandi, Heimili gaſt oſs Himnum aa, hiaalpa til ſo vor Andi, þar uppi bwi æ hiaa þier, ytri Hamur þo dvelieſt hier, hlijf oſs vid hverskins Grandi.

## Þridiudags Morgun Pſalmur, Ton, Hvør ſem ad reiſir hæga Bygd.

LOF Guds beriſt um̃ Lond og Sioo, lioomar af Deginum Þridia, aa hvorium Hønd Guds høg tilbioo, Heimſins Boolfeſtu midia, þa aatſkiliandi þurt og vott, ſo þar af kiæmi Otal Gott, þorf var Guds þeſs Dags Ydia.

Vier trwum Gud hafi Grundvallad, og giordt Jord Ohræranlega, Siaa far Hafinu ſetti hann Stad, og ſo gyrdti alla Vega, med Ordi ſijnu, ad eckert Grand, yfir kann gaanga hid þurra Land, uppaa þad vel maa voga.

HErra Gud Verk þijn heidra þig, hlat iñ med allskyns Giædi, Avoxt ber Jord og audgar ſig, allar Skepnur ſo fædir, aa Braudi, Jurtum og Mallti Meñ, med Aldin-Grøſum Fienadenn, Friooſgun lier ſierhvert Sædi.

Hreinn Løgur burt wr ſelltum Siaa, ſijaſt i gegnum Brunna, ſaurugu Þvott maa ſkekia i þaa, og Svølun fyrir þyrſta Munna, Avoxtinn bera Alldin-Trie, Edla Bloomſtur med Luktenne, Giædſku Krapt gefa kunna.

Þeſsu velldur þad þarfa Ord, aa Þridia Dag Gud talade, Vijn og Vidſmior þad i er um̃ Stord, vor ſo ad grooe Skade, Myklu diirra þo meina eg ſie, Maal Guds Sonar aa Kroſſens Trie, er ſiñe Moodur ſvarade.

Þad kann ad deyfa Dauda-Mein, Diofuls þar Skeyti granda, Sorgfullra Saalna ad ſefa Kvein, ſem undir Kroſsi ſtanda, til þeirra er honum ſaart til Sanns, ſo ſem þad væri Moodir hanns, ſem diirka hann med drwp-

um Anda.

Þvi skulum vier lesa a Þridiudag, Þridiu Bæn Christs i Hlioodi, verdi um vorn og vorra Hag, Vike þinn, Fadirinu goodi, eins og Englar a Himnum hatt, hier nidri lat þig prijsa datt, Lijd þinn, a Folld og Floodi.

A Himni og Jordu, Heidur og Dijrd, sie Hædstum Födur ad Vanda, hanns lika sinum Syni lijka skijrd, med Lofgiord allra Handa, eilijflega sw alldrei dvijn, aukist Lofid og Virding þijn, med Heidran Heilags Anda.

## Þridiudags Kvolld Psalmur, Ton, Mitt Hiarta hvar til hrigg ist þu.

KVolld Dagsins er nu komid enn, Kvolld Saung vorn h:fium allir senn, vor Kvolld Stund verdi oss blijd. Kvolld Æfinar kemur Lijd, kvolldar lijka Veralldar Tijd.

Þridia Guds Verk a Þridiudag, þient hefur oss nu enn i Hag, blessud sie Herrans Hond, sem oss bioo til Sioo og Lond, sier oss Gagn, en hepter vor Grond.

Frægur Gud virdtest Foolke lia, Foot Skor sijna ad bwa a, þader sw þyckva Jord, sem Fæder og Dryckiar hvorskins Hiord, Honum bær Eilijf Packargiord.

Lof sie honum fyrer Landed vort, Lijdur ei Foolk hier storann Skort, Guds Forsioon gætum ad: Vermir hann og vokvar þad, i Veralldar Nordurs Js kolldum Stad.

Bwum vier hier vid Bwr=Dyr hanns, berast wr Sioonum Faung til Lands, so Næring verdur noog. Gudi sie Lof fyrir Gagn og Ploog, þo giori Menn opt wr Man Jllsku Roog.

Allskonar Gotz, sem Vijn og Vist, ad voru Lande a Skipum flitst, Framandi Þioodum fra. Guds er þetta good Forsia, Gudi sie Packir, Amen Ja.

Naadi Gud, hvad vor Brioost eru blind, Braud vort etum vier opt med Synd, og dairlega dreckum med, Avijtur fær sa oss hefur lied, enn einginn Laun nie Packlæted.

Plægium vier Jord og sækium Sioo, svor=

um Guds Vundi ecki þø, etum vier Avoxt Lands, enn gleymum Vilia Giafarans, giørum margt i Forbodi hanns.

Grøsum þa Jordunn groointt stood, Gud leit yfir, og Vatna Flood, allt var þad Giæda Gnoott, enn villum vier skoda vora Iþroott, vort Athæfi flestallt er lioott.

Fødur, og Milldiñ Fridar sterk, forlaati oll voor Iuskn Verk, tækni vor Orkumsl oll, reisi upp þa sem feingu Foll, fægi af Saur og Lijti giørvoll.

Laat oss ei giallda nu i Noott, nædugi Gud þo Dags Verk lioott, siaer vort siaalfur þu, oss ollum til þijn aptur snu, fyrir Jdran, Bæn og rietta Tru.

JEsu vor sem a Jordu geckst, og Jardar þinnar a Hnetti lieckst, einmana opt og þraatt, laat oss finna Lykn og Saatt, lijka odlast roolega Naatt.

Vernd og Lid þinni veittu Hiord, vijdt fer Diøfullinn hier uñ Jord, sollt nu i Sauda Blood, hrittu fra hanns Heiptar Mood, so hverki grandi oss Elldur nie Flood.

Lof og Heidur a hvorri Stund uñ Himin og alla Veralldar Grund, sijngist hier Þrenning blijd, af ollum Tungum Ar og Sijd, eilijfa og Stundlega Tijd.

## Midvikudags Morgun Psalmur. Ton, Gudi Lof skallt Ond mijn iña.

LJoomandi Lioossinns Fodur, løfum vier nu þann Fioorda Dag, Midviku mestann Hroodur, meina eg og vorn allra Hag, DRottinns Dasemdum hroosa, er Dijrd sijna auglijste i Skopun skijnandi Lioosa, skiær mun sa Meistare, er þad med Ordi einu, a Auga bragdi feck giordt, ad Soolinn i Heidi hreinu, Heimi lijsir gloo biort.

Lioomandi Lioossinns Kierra, liær sijna Fegurd Augunum, gladir Geislar ei þverra, sem Glans færa af sier Skyunum. Allrar Byrtu Uppspretta, vr Austri rennur i krijng, alls Heimsins Augad rietta, er ætijd i sijnum Hrijng, Dasemdar Verkid dijra, DRott-

inns

'nns sw Kreijngla er, Jordunni Himkun hijra, og Hlijendi gefur af sier.

Pad stoora Lioos stioornar Degi, Stundir og Syktir sundur sker, lyser Lijdum a Vegi, i Lioosinu eru Menn Ohulter, hvad sem gyrnir ad giora, glogglega siaa þeir til, skiær og skijnandi Vera, skopud Mønnum i Vil, hvar fyrir Gledinni giæddur, Guds Madur sierhvor skal, lofa þann Lioosi er klæddur, Lioossinns i dijrstum Sal.

Sæll er Madur siaandi, Soolar Biartleik a Himninum, med Athygli ahorfandi, Edla Fegurd i Geyslunum, eins og Christs Andlits Blooma, er eitt Sinn a Tabor saast, lærandi af þeim Liooma, ad lifa i DRottinns Ast, og laata sig laanga af Hiarta, Lambsins ad skoda Stool, og Utvalldra Andlit sem skarta, eins og skijnandi Sool.

Soolunni hæitt maa hæla, Heimsins giorvalls hun Prijdi er, Riettlætis Soolinn sæla, Saalunni meira Gagn þo lier, sem er vor kiæri Christur, er Krossfestur Pijnu leid, og þwngt Mootlætis Mistur, Middeigis eptir Skeid, Sool Dimma i Oskaplig skiedi, skyggdi a Lioosid vort, daprádist Drottinns Gledi, Daudans nalgadist Port.

Faar i Formyrkvan stoorri, Frelsarinn huldi Geysla sijn, falinn i Forsmaan vorri, foreflóist Holld ad lijda Pijn, fliootandi folur i Bloodi, Fodurs hrædddur vid Grimd, kallandi haau Hlioodi, Harma Grein ei vard stemd, Gud minn, Gud minn, þvi giordir, ad gefa mig þaninn wt, Andar Kvol a mier herdir, Obær þiaair mig Swt.

Dijr var þad Daassemd fordum, a Doegum þess fræga Josua, ei gat skeikad wr Skordum, sw skiæra Soolinn Himnum a, og sijdar seig hun til Baka, sem ei er optar skied, maatti þar Mark a taka, Myskun DRottinns þar ried, þo tel eg þann Tilburd stærri, Tign Guds i Myrkri hieck, og Lioomi hanns hvorium hærri, hnignandi i Daudann geck.

Heidur sie Gudi a Hædum, hvorttveggia fyrir Soolar Lioos, þo mikill sie Munur ad Giædum, mundu Fadir ad gefa oss, i Dag vort Daglegt Fædi, Drottinn oss þar til lia,

Blessa-

Bleſsunar Medolinn bædi, Born þijn ſo megi ſæ, Andar og Holløs Upphelldi, einkum gef oſs þad tvennt, allt fram ad Æfi-Kvølldi, Ord þitt og Sacrament.

## Midvikudags Kvølld Pſalmur. Ton, Kiært Lof Guds Chriſtni alltijd.

GOOLinn er ſettſt i Æginn, ſie Gudi Lofgiord enn, af þvi nu endar Daginn, Erfidid lijka ſenn, fraa Augum Lioosid lijdur, lwnum ſo gefiſt Roo, Dijrdar Forſpraſkinn ſrijdur, Foolk i Hag ſo umbioo.

Þa ſa Meiſtarinn milldi, Myrkrid var ſvart og lioott, ſem kiemur ad hveriu Kvølldi, klaara þvi giordi Noott, tilbioo Twnglid ſkinandi, tendrad ſem Nætur Blis, vex og verdur þverrandi, Viti ſa, til Skiptis.

Lof ſie hoomandi DRottni, ſem lijſir upp biartann Dag, og med Twngls Liooſs Tilbreitni, temprar Naatt-Myrkurs Hag. Aſtgiafarinn allra betſti, Otal Stiornur i Krans, Himins aa Hvolfid feſti, og hagar vel þeirra Glans.

Himin Twnglinn oſs teikna, Termin i Heimi margt, Tijmans maa Reglur reikna, rett eptir þeirra Art, þeir ſem med Gætni grunda, Guds Merkinn hvørgi raung, i Tolu Tijma og Stunda, Tijd þykir ei mieg laung.

Tokum vel lientu Laani, Luckunni ei treyſta ber, hun vex og minkar ſem Maani, miklum Gud, hvørt ſem er, Chriſtne Guds Naud þo nijſte, Nafn hanns er hennar Skiool, Trwar Lioos tekur af Chriſte, ſem Twngled Byrtu af Sool.

Guds Lioominn Geiſla huldi, i Graat Skyum þegar Od, Formyrkvan Daudans duldi, Dijrd hanns, þaa wtrann Blood, ſolvum þa maa þad Maana, ad miſſa Sælgiætis Skyn: Vær þo ad vætum Braana, veikir, þad er ei Kyn.

Guddoominum Giædſkurijka, geſum Dijrd allir ſeñ, ſkygn Augu og Lioosid lijka, lienti oſs i Dag eſi, hañs Naad oſs hvorn Dag vægi, hvørttveggia misbrwkaſt, Mirkranna Fleck af-ſægi, ſem fogur Trw af ſaurgaſt.

Vier erum a Vegi raungum, Vorkun sieſt oſs þo rijr, blindir i Byrtu gaungum, Vakid vid Liooſi ſniir. Rettlætis Soolinn ſanna, Saalunum til þijn ſnw, Upplijſing allra Manna ertu minn ſæll JEſu.

Milldur ad Midviku Aptni, miñ Gud lát ollum hier, hlotnaſt þa Heill og Heppni, hvijlaſt Drottinn i þier. Myrkranna illur Andi, eingum hier giori Tioon, Amen Gud allsvaldandi, eg bid, heyr vora Boon.

## Fimtudags Morgun Pſálmur. Ton, Giædſku Guds vier prijſum.

LIfandi Lijfſins Brunnur, Loflæll Gud Himnum a, hvors Mañs Hiarta og Munnur, Heidur þier giori tiaa, ſem veit þa dijra Daad, er a Fimtudag fyrſta, Foolki þijnu til betſta, giordi þijn Gudleg Raad.

Af Vatni lietſtu lifna, lifandi mikinn Her, Fugla er fyrſt ſkal nefna, fliwgandi uñ Loptid hier, eñ priiddir med Fiſkum Flood, ſem fløgro, ſynda og ſveima, Siaafar uñ diwpa Geyma, metta þo menniſka Þiood.

Skepnur Guds allar eru, fyrir adra giord ar enn ſig, ſierhvor i ſinni Veru, ad ſoñu nytſamlig, þeim ſem Gud lier þad Lien. Þeirra þarf Lnnd ad læra, lijka i Nyt ſier færa, heidra ſo Gud igien.

Sie honum Eilijf Æra, ſem oſs hefur fyrir ſett, af Fuglum Frood-leik læra, ad fliwga er þeirra Stiett, kvaka og ſyngia ſætt, eñ Ahyggiu eingva hafa, odlaſt þo hver ſinn Krafa, af þvi ſem þeim er ætt.

Fugl ei fellur a Jordu, Fødurſins utann Villd, Saal mijn þa Huggun heyrdu, hærri þier lient er Snilld, Dijrd Guds þu erfa att, Orvinglan øll ſkal þagna, Efalaus ſkalltu fagna, i Drottni um Dag og Naatt.

Þvi ſa ſem bioo til Brunna, og bruggar af Triaanum Vijn, þur Brioost og þyrſta Munna, þar med ad fyrdi Pijn, Svølun ei ſialfur feck, þad er vor kiæri Chriſtur, ſem kvadſt Daudlega þyrſtur, þa kvalinn a Kroſſe hieck.

Fyrir oſs leid Piaaning þeſsa, þiggiandi

bitrann Smeck, þvi blijdur villdi blessa, bædi voorn Mat og Dryck; saup hann og swrt Edik, so Dijrdar Vijn fengium drecka, enn daudir ei skylldum smacka Brennistein, Elld nie B.k.

Fridar Fadirinn hærsti, fyrirgef oss vor Brot, fyrir hvør af kiærum Christe. komin er algiørd Boot, Lijkn hiaa þier laat oss faa, eins og vier vilium veita, Vægd þeim sem oss aa-reita, Myskun þijn miøg er hææ.

Guddoomsins Andinn goodi, sem gafst oss eitt Andlegt Fiør, i skiæru Skijrnar Floodi, skickandi oss Himnesk Kiør, Hiørtu vor fær.a Flug, so leitum hellst Lijfs ad Gædum, hiaa lifanda Gudi i Hædum, med þreyandi og þyr-stum Hug.

## Fimtudags Kvøllds Psalmur. Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Saal.

BLessadur sie vor DRottinn dijr, Dags-Lioos fyrir Naatt Myrkri flijr, Myrkrin þo ecki þockníst Pjood, þreittum er ætijd Hv-ijldinn good. Lof sie Gudi fyrir lidna Tijd, lofud sie Guddooms Þrenning blijd, Aund mijn Gud prijsi Arla og Sijd.

Alldrei fær neinn i nockrum Stad, naad-ugi Gud þier fullþackad, þad er so margt og mikils verdt, Mannsins vegna þu hefur giort, Fuglum Loptsins og Fiski i Siaa, med fleiru ødru hann raada maa, Vit og Makt fieck ad veida.

Gudi sie Lof sem giordi Vøtn, Gagnaud-ug fyrir vora Nautn, og lætur oss þiena Løg og Jord, leggium i Stadinn Þackargiord, daunst ad HErranns dijrri Ment, daudt þo hann taki Element, Skopun getur og Lijf þvi lient.

Drottni JEsu sie Dijrdinn stoor, a Diwp til Fiski Afla foor, þvi Arlega blessar Elskann hanns, Utvegi Foolks til Sioos og Lands, he-idrum vier Nafnid hanns fyrir þad, hefur vor Tilfaung margfalldad, og lætid margt dragast Landi ad.

Drottinn so lætur duga hier, Degi hverium þad hann oss lier, þad sem oss gefst af Landi og

Lai, leggiandi sijna Blessan o, Unum vid slijkt sem oss er lied, ei veit hvad leingi þurfum med, er vor Gud Saalar Upphelldeð.

Avi ad hefdum Vængi vær, Vilia og Fijsn til Jdrunar, og fliwgum i Kvolld sem Fugl i Bool, Fodurs vors undir Nædar Skiool, Sæti JEsu i Sijdu Or þitt, Saal vor hverfi so verdi fridt, eins sem i Hreidur Svalañ sitt.

Næd Drottinns lieni oss Nætur Grid, Nauda Tilferlum varni vid, so vor verdi Nattura nærd, naatturlega oss gefi Værd. Sælir i Gudi sofnum vier, i sætum Fognudi uppvakter, og gaungum i Fridi Gudhrædder.

## Føstudags Morgun Psalmur.

**Ton, Dagur i Austri øllum.**

SJ: Gudi Lof! þann Siotta, sieaum vier Vikudag: Trwar Regluna rietta, rækium, og Saalar Hag, hroosandi þvi Handverki, Herranns sem giordist þa, þad var mesta Stoormerki, Manninn skoop Jordu a.

Ei þo fyrr enn Kvikindi, øll voru bwinn til, hafandi hid hellsta Yndi, ad horfa a Meistara Spil, sijdarsta sem hann giordi, sinni lijkt Dijrdar Mynd, viliandi ad ytsta yrde, sijn Eptirlætis Sijnd.

Lof sie Guds Lyndi froomu, hid laga ei forsmaar hann, vænt Þijng wr Efni aumu, al hagur smijda kann, Lyknesskiu burt wr Leyri, liet sijn Augu addaast, hanns er Heidur ad meiri, þo hafi a sijnu Ast.

Gøfugt var Gudlegt Smijdi, er' giordist fyrir hanns Maal, ljoomandi i ljoosri Prijdi, lifandi Holld og Saal, þo var sw Heilinn hærri, hrumda Manneskiu er skied, Drottiñ med Dasemd stærri, Daudlegt Mein lækna ried.

Vard Guds Naad þad til vinna, ad vita sijns Sonar Bol, Son Guds til Fleina ad finna, fordæmdur Kross i Kvøl, og sier af Angri barma, wt þegar pijpti Blood, lijkt sem Guds Lamb ad jarma, Lausn so ad fengi Þiod.

Frægd stoora framdi a Jordu, Frelsariñ þegar doo, Syndanna Hapti hordu, hañ fle-

igdi i rauda Sioo, sijns Bloods, og so af Reidi, sagdi i Aftoku Stad, Satan Svikarinn leidi, siaa mitt Verk fullkomnad.

Friaa-Dag þvi holldum frægstann, framyfir Lioosinn hin, Lausnar Verk Naadar nægsta, naadadi Mannlegt Kyn, þa Lijfid i Solur lagdi, og Lijknar Fordæmdum bad, Son Guds og til vor sagdi: Siaa, allt er fullkomnad.

Fadir, leid Foolk þitt eigi, Freistingar inn i Neyd, frid ad aa Føstudegi, fyrir þijns Sonar Deyd, laat oss þaa Huggun hlioota, sem hefur hann forþienad, og Himnaskra Heilla nioota, þa Hlaup vort er fullkomnad.

## Føstudags Krelld Psalmur. Ton, Eilijfur Gud og Fadir kiær.

PRinnum Gudi sie Þackargiord, aa þessu Friaadags Kvolldi, ort og tied um̃ alla Jord, af ollu lifanda Holldi, þviad þad allt er Handverk hans, þo haaleitust sie Skopun Mans, er sijdarst hann vanda villdi.

Dijrdar verdugur einkum ert, af ollu man̄legu Kyni, eilijfur Gud, sem allt hefur giort, ad Adams Bornum þad þieni, þvi Englarnir þurftu þess ei med, til Þarfa oss skapadir Fied, og lagdir oss þad i Lieni.

Oss hefur þient þad enn i Dag, aa Utlegdar vorrar Vegi, sem þu vanst oss sialfur i Hag, aa Siotta Skopunar Degi, af Kvikfiaar fedur Kiot og Mioolk, Kvolld og Morgna þitt hungrad Foolk, daglega og Daa sem degi.

Sem Konunglegur Kiallari maa, og Kiotbwr DRottins heita, Maalnytu Gagn, sem mettunst aa, og Millди hans giorir oss veita, Skoo og Klædi af Skinni og Ull, skopud er oss þar Næring full, launar Gud so vorn Sveita.

Vier niootum þess ad Naadinni hanns, naa komna oss sier giordi, þa Andanum blies i Asiaan Manns, og eilijft Lijf innfærdi, i Lijkneski d af Leyri skapt, lofum bædi hanns Gæsku og Krapt, til Dijrdar þad Verk hanns verdi.

P 3 Man̄

Mann elski Gud hvers Milldi ei þver, myskunar øllum Þioodum, Avi vort Edli ordid er, Olijkt Skapara goodum, þinna Verka vier þyggium Not, enn Þioonusta vor er ill og lioot, Skaparans Skickun trodum.

Frelsari vor sem fyrir oss badst, a Føstu Dag þann hinn langa, og Reidinnar Pressu trwlega tradst, a Trienu þa virdtist hanga, med þinni Hlijdni bæt vorn Brest, Blood þitt heilagt oss a helleſt, og afmae allt hid ranga.

Heilagi Andi oss hiaalpa þu, ad Heill þa ei af oss briootum, efldu med oss Ydran og Trw, so allra Guds Verka niootum, i Naadum bædi Noott og Dag; Naatturu Brest vorn fær i Lag, so eilijfa Hvijld vier hliootum.

## Laugardags Morgun Psalmur. Ton, Myskunar Fadirin milldi.

Laatum a Laugardegi, Lof-Saung Gudi i Tie, Packlæti hans þagni eigi, þo halli Vikunne, Hvijldar Mining hins Hæsta, hiet fordum þessi Tijd, helgud med Heidri stærsta, HErrans af Erfda Lijd.

Eptir Skopunar Ydiu, Almætti hvijldist hans, enn ecki Erfidi midiu, eins er Skapnadur Mans, Sex Daga eigum ad eria, eptir þad þyggia Roo, heilaga Hvijld ad byria, a Himnum er Gud tilbioo.

Vier eigum hartt ad hæla, Handverki Almættisins, um Viku Heims Alldurs heila, Hag studdi Mannkynsins, Gud til Gagnsemi og Fridar, giordi oss Daga Sex, i Hvijld sinni hann ersidar, Hiaalprædis Verk þvi vex.

Oss ber villiugum vera, i Verki med Herra þeim, sem kiendi oss gott ad giera, giorandi þenn enn Heim, myndadi Mann og Brwdi, med Mynd sijns Bijlætis, Verk þad hanns Veru ei lwdi, vert þo stoors Packlætis.

Vier med Lamech oss lijum, leitandi fallvallts Auds, og Armæ-u a Iord drygium, aflandi Daglegs Brauds, opt verdur rijr Abati, ollir þvi Mann Spilling, a andlega Ydiu latir, erum, og Leidrietting.

Fyrir þvi fram ad Kvølldi, Frelsarin þræl-

kad=

kadest, at Saal og heilögu Hollde, Heill vor so fullgiordest, uppgiefinn af Erfide, afhendte i Födursins Hönd, sofnandi i sælum Fride, syna blessada Önd.

HErrann fyrir Præla þoldi, þessa Mæ du og Smt, þa eptir Pijning hvijldi, Þvott-Daginn mikla mt. Lof sie Lausnara mijnum, sem lagdi a sig þad Prek, ad afmaa med Sveita synum, Syndir vorar og Brek.

Kiennandi oss ad enda, Erfide vort med Bæn, og Saalir honum afhenda, Heim For so verdi væn. Honum skulum so heilsa, Heim þegar kvedium vær, fraa öllu Illu oss frelsa, O Gud vor Fadir kiær!

## Laugardags Kvölld Psalmur. Ton, Fadir vor sem aa Himnum ert.

SJötunda Kvölld nu komid er, kiært Lof Gudi þvi syngium vier. Ein Vika er oss enn af þreyd, alltiafnt sinaa stittist Lijfsins Skeyd, er oss þad Gledi i Eymdar Dal, af þo reiknist vort Daga Tal.

Sie Gudi Lof fyrir sijna Naad, Syni Guds Dijrd fyrir vort Hiaalpraad, Anda DRottins sie Þockinn Þijd, þad hefur verid oss Fridar Tijd, heilög Guds Þrenning heldrud sie, Hundrad margt gott sem oss liet skie.

Guds vors i Liosi gienglum vier, Guds undir Vaki vardveitter, Gud oss sitt Braud til Bordhallds fieck, Brunnur Guds til liet Svala Dryck, at Felli med oss Guds Fridur var, i Fadmi Guds svaafum at Næturnar.

Belzebub saa hinn bölvade, Babyloniskur Tyranne, kyndt hefur enn sinn Kvala On, kieppst vid ad giöra oss öllum Tioon, enn Drottins Engili Dagana Sio, Diöfulsins Vondskap hindrade.

Gud heimtir Viku Verkid vort, vor Hlijdni hefur mikinn Skort, Siotijusinnum Siosinnum, signad ann Gud vier stiggt höfum, enn haann Sio Daga gaf oss Grid, glötudum Lijfid enn hiellt vid.

Hvad skulum segia hier til vier, hæda lætur ei Gud ad sier, saarheiptast hann vid Synda Lyst, sijst vill þo nockur fortapist, Ottunst Ni-



ett=

ettlætis Reidi hanns, reinum enn Giædsku Lausnarans.

JEsu, sem margar Vikur varst, i Verolld og hennar Syndir barst, saar Græild þu leidst fyrir Saklense, seinast i Pijslar Vikunne. Klæki vora þu kvitta best, klarann gior nu vorn Reiknings Brest.

Hvor Dagur, Vika, Ar og Olld, endast þa þess er sidarsta Kvolld, ad settri Tolu i sama Mund, so kiemr og vor Dauda Stund. Unn oss þa, JEsu, eg þig bid, ærlega ad skilja Heiminn vid.

---

Trwarjatning Athanasii. Med Ton, Nu kom Heid inna Hialpar Raad.

Maa og lagast vid þann Ton, HErra Gud þig heidrum vier.

HVor sem villdi ad hoolpinn sie, helga Trw einkum vel kunne. Heila flecklaust sem hiellt ei þa, hann ferst Eflaust eilijflega.

Eirn Gud i Þrenning, almennt trw, i Eining Tignar Þrenningu. Persoonum meingar samann sijst, Sundrun Guds Veru neitar vijst.

Fodurs, Sonar og Anda hanns, er sijn Persoona hvor til Sanns. Þessar Þriar eru samt eirn Gud, eilijft Valld og Dijrd samtofund.

Sem Gud Fadir, eins Sonur er, so helgann Anda jata ber. Oskoddud, Eilijf, Omælanlig, er Guds Persoona hvor umm sig.

Ei eru Þrijr þo Eilijfer, Eini Gud æfinnlegur er, Oskapadann, Omælanlega, Eirn so trwa, enn ecki Þria.

Fodur, Son, Anda heilagann, eins trwe hvern Almattugann. Ei hafa Þrijr þo allann Matt, Allsvalldanda einn heidrum hatt.

Fadir, Sonur og Andi hreinn, er Gud og Drottinn hvor sem Eirn. Hallt þo ei Gudi nie HErra Þria, helldur Einn Gud og DRottinn tiar.

Sannleiks Kienning sem jata baud, sw Greining hvor sie HErra og Gud. Hrein almennt Trw so hratt oss fra, hallda Gudi nie DRottna Þria.

Gud Fadir er af aungvum til, ei skapadann nie boriun skil. Guds Son af Fodur Einum er, ei vard nie skoopst, þo fæddist hier.

Eirn Veg Gud Andi heilage, af Fodurnum og hanns Syne, Ogiordur Skopun aungva ber, ei fæddist, þo framgeingiun er.

Eirn er þvi Fadir, enn ei Þrijr, Eini Guds Son og Andi dijr. J Þrenning verdur einginn Grein, Ædri, Minni, Fyrri nie Sein.

Persoonur eru allar Þriar, eilijfar jafnt i Heid-

ri

ti haar, so i Preñingu Einingeñ, i Eining Preuning tignest senn.

Til Sæluhiaalpar sunn er Þorf, sie Trwinn med oss vijs og diorf: JEsus vor HErra eilijfe, oss til Lausnar Holldgadur sie.

Þvi er hrein, riett og heilög Trw, Hiartañlegt Traust og Jaatning sw: Guds Son JEsus vor HErra haar, hañ sie Gud og þo Madur klaar.

Af Fødur Olst i Eilijfd Gud, i Heim barst Mañ af Meyar Kvid. Fullkomeñ Gud og fullgiør Mañ, fyrer Saal og Mañs Lijkamañ.

Miñe Fødur ad Mañdoome, med Fødur jafn i Guddoome. Eirn þoott sie Gud og Madur hreirn, ei Tveir, helldur er Christur eirn.

Eirn er þoott ei sie umsnweñ, Art Guddoomleg i Mañdoomeñ, helldur so, ad heil Guddoomlig, hefur Mañdoom teked aa sig.

Soñ ein Persoona sw er vijst, Sam-meingast Tvær Naatturur sijst, sem Holld og Ondu eirn Mañ sier, eins Gud og Mañ eirn Christur er.

Sa eirn leyste af Syndum oss, saarañ Dauda þvi leid aa Kross, og sne til Vijtis ofañ strax, uppreis fraa Daudum Pridia Dags.

J Haatign upp til Himna stie, hiaa Fødur jafn i Almætte, aptur vill koma eins þadañ, ad Lyfs og Dauda dæme hañ.

J hvørs Tilkomu aller Meñ, i eigeñ Hollde riisa señ. Af sijnum Verkum sierhvør þa, sañañ Reikning framlaata maa.

Goodsiwser til Lijfs aanga þa, Gudlauser i Kval eilijfa. Hrein Almeñ Trw er hier framsett. Hiaalpast eingeñ þa hiellt ei riett.

Þetta Symbolum Nicænum, edur Messu Credo, epter gamallra Versione, Laatum vier hier med fylgia, hellst epter þvi þad er Alkuñugt og Tijdkanlegt viidast i Sudur-Stiptenu, aa Haatijdis-Dogum.






eñ vorn JEsum Christum, Eingieteñ Guds Son, og af Fodurnum fæddañ,

fyrer allar Veraller, Gud af Gude Lioos af Lioose eirn sañañ Gud, af

Gude sonnum, gieteñ enn ei gierdañ samvafn sijnum Fodur, fyrer hvorn ad allt

er giort, hvor fyrer ofs Mañena og vorrar Heilsu seker, stie nidur af Him-

ne. Took Hollðgan af Heilags Anda Krapte, af Mariu Meyu, og Madur

svo vordeñ. Hañ er og fyrer ofs Krossfestur, under Pontio Pilato, var hañ

pijndur og grafeñ. Og upprijsande a Þridia Deige, epter Ritningunum.

Og uppstijgande til Himna, situr a hægra Veg Guds Fodurs. Og i annad

Siñ er hañ komande med Dijrd til ad dæma, Lifendur og Dauda, a hvors

Rijke verdur eingeñ Ender. Og vier trwum a Heilagann Anda, DRotteñ

allt Lifganda, af Fodur og Syne framfaranda, hvor med Fodur og Syne æ

tilbeidest, og æ aavallt samdijrkast, hvor ed mællte fyrer Spaamennena. Og

vier

vier trwum Heilaga Christne, Stadfesta fyrer Postulana, og jatande

eina Skijrn vera til Fyrergiefningar vorra Synda, og Epterbid Upprisu

allra daudra Manna, og þa komande Eilijft Lijf, allr = a Allda,

A = = men.

## GLORIA.

Sem siungast mæ Stundum, bæde i Kyrkiuñe og heima i Hwsunum, þa ecke er Embættisgiørd frameñ; Ton, Alleinasta Gude i Himmarijke, etc.

HEidur sie Gude Himnum aa, og hædst Lof fyrer Naad sijna, ad hiedañ af oß alldrei mæ, Ogn nie Kvol nockur Pijna. A Jordu hofum vier feinged Frid, Fodurnum þocknast Mañkyned, nu hlaut oll Heipt ad dvijna.

Vier Losum, Dyrkum og Þackum þier, þig tilbidium alleina. Vallð þitt Gud Fader eilijft er, alldrei kañ þad ad riena. So er þiñ Makt

Makt Omæleleg, Algiort er allt hvad þier er i Hug. Vel þeim er i Trw þier þiena.

O JEsu Guds Eingieteñ Son, eilijfe Gud vor HErra! Þu bætter allt vort Andar Tioon Eymd vora virdtest bera. Lamb Guds sem Daudañ leidst a Kross, Lijknsamur siert þu ollum oss, vora Bæn vilier þu heyra.

Heilage Ande Hiaalpeñ trw, Huggareñ allra beste, fra Diofuls Svikum forda þu, Flock þeim sem JEsus leyste, med sarum Dauda og Undum sijn. wr Eymd og Neyd leys Christne þijn, sem af Hiarta a þig treyster.

## Eitt Bænar Psalmur, ad sijngia þa Born eru skijrd, med Lag.

Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

ÞU varst fyrer oss eitt Ung-Barn, O JEsu HErra Naadargiarn. Af hreinnre Jomfrw fæddur ert, Foolk þitt so hefur hoolped giort.

Ung-Born hefur þu ei forsmaad, a Funde þijnum feingu Naad. Yfer Borneñ hefur þu Hendur lagt, blessad þau, fadmad og so sagt:

Lated Born meiga til mijn naa, meined þeim ei miñ Fund ad faa. Himnarijks Eigñ þeirra er, og allra sem eru þvilijker.

Þetta Barn þier bijfalad sie, bliide JEsu vor Lausnare. J þijna Christne þad inleid, þyrm og frelsa fraa allre Neyd.

Ætijd hlijf þvi med Einglum þijn, fraa Olucku Slisum og Pijn. Med þiñe Ast og mildre Naad, myskuna þvi og blessa þad.

Veit þvi med Alldre Voxt og Spekt, ad verde hlijded þier og þeckt. Og life hier heilaglega, hiaa þier sijdar æfenlega, Amen.

## Hioona Psalmur, Med Ton, Kom Ande Heilage, etc.

SÆll ertu sem þiñ Gud, i Sañleik ottast, gack fram hañs giorvoll Bod, sem glogt nu vottast.

Þu munt og þiña neyta, Prisleiks Verka sællertu, so mun þier veitast, Sæmdeñ sterka.

Þijn Hws-Frw þijna Bygd, skal hañ Veg



sedia

sedia, sem Vijn Tries vænust Dygd, kañ Virda gledia.

Þitt Bord Uṁbergis þa, ad Syner sitia, sem Vidsmiors Vidur sa, er vel maa nytia.

Sia, hier þa Sæmder fa, i siñe Veru, Guds Otta ef gyrnast aa, þeir gypter eru.

Signe þig sialfur Gud, af Zions Vellde, so ad Jerusalem, med Heidre hallde.

Og þu munt eirneñ Born, sia Barna þiña og Jsraels agiæt Vorn, ad Frid mun siña.

## Same Psalmur, med ødrum Hætte.

CHristens þad eitt mun Maṅs, mest Audlegd vera, og Lijfe hryggvu haṅs, hellst Blessan bera.

Eilijfañ ottast Gud, og hønum uña, haṅs jafnañ heiløg Bod, hallda og kuña.

Hand-Biørg þier Fædu fær, fullrar ad nioota, sañre þu Sælu nær, Sæmd muntu hlioota.

Hwøssens Upphellde sie, hollt Eigeñ-Kviña, sem gott Vijnvidar-Trie, var Kvista siña.

Allt Bord þitt uṁ i kring, eins sitia Syner, Eyk Vidsmiørs og uṁ kring, Ungvider kliener.

Swanda Blessan sw, bregdst alldrei neinum, eirn Gud sem ottast nu, af Huga hreinum.

Weite þier Giæfu Gud, Grande vid varbe, af Zion alla Tijd, og Frida Garde.

Audlegdar Elle med, uñe þier giarna, ad feinger Syne sied, sijdañ Børn Barna.

Foolk Guds wr Faare leidt, Frid hallde leinge, goodsiwser aller eitt, Amen Meñ sijnge.

## Epter Kyrklu Jñleidslu Kveña, sijngest þetta Vers, med Ton, Gud Myskune

HErra Gud Fader Hlijfd þijn sie, ad hitte þig eingeñ Pijna, Guds Son JEsus vor Grædare, geyme haṅ Saalu þijna, Helgañ Anda eg uṁ þad bid, Jñgaung þier þeñañ giefe, ad eignest Guds Naad og Andar-Frid, Utgaang sem Froomum hæfer, nu og uṁ alla Æfe.

## Maa og sijngia þesse Vers, Ton, Af Fødurs Hiarta Barn er bored, etc.

JJEsu Nafne Gud miñ giæfe, þad Gagn sækte eg til Mysteris, ad Hreinsunar Dagar sie øll mijn Æfe, aa mier hrine Løg-Boot Christs, so kuñe eg kiæra, Foorn þier færa, Fødur Himneskum, hvert-

ium sie, Lof, Dijrd, Heidur ad eilijfu.

Ecke er til i Eigu miñe, Offur-Lambed Sakleys-is, utañ þad sem af Elsku þiñe,eg medtook,Forþien-an Christs. Blood hañs Saara, best mun klaara, Brot mijn øll, þvi Gude sie, Lof Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Hiarta mitt med Huga hollum, helgad sie miñ DRotteñ þier, sem lifnar fyrst af Limunum øllum, lijka seinast burtu deyr, laat þad kuña, æ þier uña, allt til Dauda, so þier sie, Lof,Dijrd Heidur ad Eilijfu.

Moodur Lijffins Avøxt allañ, eg fel Gud i þijna Hønd, laattu Hioon aan Heiptar-Galla, hafa rietta Dwsu-Lund,og epter Løgum, hegde Høgum,hrør og eirn,so Gude sie,Lof,Dijrd,Heidur ad Eilijfu.

## Blessunar=Psalmur fyrer Maaltijd.



Fader a Himna Hæd,hvør fyrer Jesu Naad,Elsku þijna oss vottar, Aund og Lijkama mettar.

Hvad um̃ Lopt, Vøtn og Jord, lifer og hefur Ferd, Forsørgar og Framfærer, Fiolgar, Klæder og Nærer.

Blessar øll Børneñ þijn, burttekur Synd og Pijn, færer þeim Fædu hreina, fyrer þiñ Son alleina.

Til Lofs og Dijrdar þier, lijka sem Christnum ber, þiggium i Dag þacklaater, þitt Lann sem oss ve.ter.

Laat oss i hreinum Hug, hallda oss vid þiñ Veg,so med Samvitsku goodre, sediunst voru Foodre.

Veit oss þad verde fyllt, sem vottar Paull oss skyllt, gleymum ei þijnu Orde, yfir voru Borde.

Laat oss ei lijkiast þeim, Lijd sem stundade Heim,hvørium þu hlijfder eige,hvad Skrifteñ af þeim seiger.

Medañ mettudu sig,miñtust þeir sijst a þig, giordu sier heidna Glede,grim̃ fiell a þa Reide.

Hialp oss nu HEira kær,so Heidur þiñ eflum vær,fyrir Frelsarañ Christum, Fader a



þig

Þig treystum.

## Packlætis-Psalmur epter Maaltijd.



Heidrum vier Gud af Hug og Saal, hans Lof vor Tunga sijngia skal, ad sijna Giæsku



sijnde lioost, sadde oss vel med Dryck og Kost, sa ollu Hollde Fædu fær, fædt hefur oss nu



DRotten kiær, þad allt hans Millde þockum vær.

Þockum honum nu Þioonar hans, þad er oss ollum skyllt til sans. Jaatum ad oss elskade han, af Naad sijne skapade Man, med Hwd og Hollde, Bloode og Bein, Bygd er vegleguft Skiepna ein, og sijdan giefen Saalen hrein.

Þa Madur Lijf i fyrstu fær, Fæda heilnæm er honum nær, i Lijfe sijnar Moodur moa, Madurin sijna Næring þa. Þo Barnkynd sw sie ung og aum, ei hefur skort a Gaasum þeim, fram til þess hun fædest i Heim.

Gud hefur Verolld vel tilreidt, vanta lætur ei a Næring neitt, Fiollen og Dale frioofgar han, Fienaden Gras ei vanta kan. Vex wr Jordunne Vijn og Braud, veiter þad hvort Ar milldur Gud, og hiaalpar so af Hwngurs Naud.

Fiska veita oss Votn og Sioor, verdur af þessu Maaltijd vor, Egginn og Fugla eignunst vier, oss til Atvinnu skapad er, Naut, Geitur, Svijn og Sauda-

uda Fie, sialfur Gud lætur oss i Lie, so ad vor Næring noogleg sie.

Þockum honum og bygginum nu, þad hañ giefur oss saña Trw, ad hofum slijkt i Hiarta riett, halda Bod hañs i vorre Stiett. So jafnañ oll hañs heilog Hiørd, heidre hañs Blessada Nafn a Jørd, þad skal vor allra Þackargiørd.

## Añar Packlætis Psalmur, epter Maaltijd, Ton, Christe vier aller þockum þier

GUD vor Fader þier þockum vier, fyrir þiñ Son Christ vorn HErra, Millde þijna sem margfolld er, med hvorre virdest ad næra, allar Skiepnur sem eru med Ond, oss hefur sadt þijn millda Hond, Lof sie þier Dijrd og Æra.

HErra sem mettad hefur nu, Holld vort sem endast hlijtur. Saal vora eirneñ sedier þu, sem alldrei deyr nie þriitur, Ord þitt er heñar Afl og Megn, þar til þu verdur heñar Eign, Naavistar med þier nytur.

Himna Fodur a hvorre Tijd, heidrum um Christeñdoomeñ, sem oss kvittade Synder vid sw Naad af Trw er komeñ, fyrir hañs Son JEsum HErra vorn, hvor med sier liet oss verda Born. Ætijd losum þig, Amen.

# IV. Nockrir Hiartnæmir Psalmar, um Daudann, sem syngiast meiga yfir Greftran Framlideña.



Midt i Lijfi erum vier, umvafdir med Dauda. Til þijn DRottinn
Hvert litum so finnum hier, Hialp vid þessum Voda?



alleina, Illgiörda vorra ydrunst nu, er þvi vallda ad reidist þu, Heilagi HEr-



ra Gud, Heilagi Stirki Gud, Heilagi Lijknsami Lausnari, þu Æfinnlegi Gud,



Laat oss egi falla, i þa grimu Daudans Neyd, Kyrie eleison.

Midt i Dauda ad oss stær, Ogn af Vijtis Kvolum, hver þeim af oss hrundid fær? Hiaalp þa oss vier folum, þad ertu DRottinn alleina, mædir Hiartans Myskun þijn, Mañ kyns Kvol og Synda Pijn. Heilagi HErra Gud. Heilagi stirki Gud. Heilagi Lijknsami Lausnari. Þu Æfinnlege Gud. Laat oss ei ofbiooda, Ogn af Vijtis grimri Glood, Kyrie-eleison.

Midt i Vijtis mestu Ogn, Misgiördir oss reita. Hvar faaum vier þeim Hiaalp i giegn? Hvor kann oss Lid ad veita? Þad ertu Drottinn alleina. Þvi Bloodid þitt vor Christe kiær, kvittad allar Syndir fær. Heilagi HErra Gud. Heilagi stirki Gud. Heilagi Lijknsami Lausnari. Þu Æfinnlegi Gud. Hiaalpa oss þa Heim vid skilium, ad hallda rietta Trwar Glood, Kyrie-eleison.

Bænar

## Bænar Psalmur umñ goodañ og Christilegañ Afgaang af þeßum Heimi.



Minn HErra JEsu Madur og Gud, sem Mædu, Pijnu, Spott og Deyd, fyrir



mig þoldir og Kroßins Kvol, og kvittadir mig vid eilijft Vol.

Fyrir Kvol þijna bid eg nu', mier aumum ad hiaalper þu, nær Daudans kiemur þin strijda Stund, stoorlega grim̃ aa alla Lund.

Nær Augun missa alla Sioon, Eyrunum kiemur Heyrnar Tioon, Twngañ ei leingur mæla maa, mitt Hiarta tekur ad þrotna þa.

Nær allur Maattur minn eydist so, einginn Madur mier hiaalpa maa, O! HErra JEsu þijn Himvist blijd, huggar mig þa i Daudans Tijd.

Leid mig af þeßum Eymdar-Dal, og stittu mijna Daudans Kvol, Andskotans Reidi frels mig fraa, fyrir þiñ Anda, og vert mier hiaa.

Eñ þegar skiliast Lijf og Aund, O Gud tak hana þier i Hønd, Hvijld Holldi af þier eg þyggia vil, þar til Dooms Dagur tekur til.

Glada Upprisu gief þu mier, geym mijn þa Dagur Doomsins er, mijnar Syndir miñstu ei aa, milldur gief mier Lijf eilijft þa.

Lijka sem fyr mier lofadir þu, legg eg aa Ord þitt mijna Trw: sañlega, sañlega segi eg þier; Saa mijn Ord helldur og treystir mier.

Ogn Daudans reinir aungva hañ, eilijfañ Dauda ei smacka kañ, lijkamlegt Andlaat eitt

Siñ fær, vid Andar Dauda ei verdur var.

Vil eg med volldugri Hønd, vid skilia hañ vid Daudans Bond, Arf mijns Rijkis skal eignast faa, æfiñlega mier siaalfum hiaa.

Og lifa i Sælu og soñum Frid: Sæmd þa veit þu oss milldur Gud, allar Syndir oss forlaat þu, ad þoliñmoodir vier bijdum nu.

Med hreiñri Ast og traustri Trw, til þess ad kiemur Stundinn sw, og feingium þinna Orda giætt, allt þaangad til vier sofnum sætt.

## Hiartnæmur Psalmur uñ gooda Burtfør.



Þa liñir þessi Lykams Vist, og leidir þu mig fraa Heimi, J Sk.lnad
Hiaastod veittu mier Herra Christ, og Hjalp þijn alldrei mier gleymi,



mijna aumu Aund, eg gief og fel i þijna Hønd, ad medtakir og geymer.

Mig pijna jafnann Sekt og Synd, Samvitskunni fast aamæla, þær eru fleyri Siaafar Sand, samt skal eg um Hiaalp ei vijla, þvi Dreyrinn raudi og Daudi þinn, DRottinn JEsu Frelsari miñ, er min Lijfgiøf og Sæla.

Eg er þinn eigiñ Limur einn, af þvi fæ eg Huggun gooda, alldrei slijtur mig af þier neiñ, i Angist og Daudans Voda, enn þo eg deye, er eg med þier, eilijfann Fognud fannstu mier, DRottinn med þijnum Dauda.

Eins sem af Dauda uppreist þu, i Grøf mun eg ei blijfa, Himnafør þyn er Hugaun

